var sóknarprestur á Ríp; þeir voru sammæðra.

Árið 1882 kvæntist Magnús og gekk að eiga Helgu Jónínu, dóttur Halls Hallssonar í Réttarholti; næsta ár byrjuðu þau búskap á Hjaltastaðakoti í Blönduhlíð; þau fluttu vestur um haf 1886 ásamt árs gamalli dóttur, Hallfríði að nafni; á hinu fyrsta dvalarári í þessu landi veiktust mæðgurnar báðar, og létust með eins dags millibili þann 15. og 16. september. Eg hefi heyrt gamla menn telja það til raunverulegrar fyrirmyndar, hve Magnús skáld varð vel við þessum þungu örlögum; þannig hefir hann tekið öðrum þungum búsifjum ævinnar; hann hefir aldrei varpað yfir sig neinni sorgarskikkju; engu að síður er hann viðkvæmur tilfinningamaður, sem borið hefir jafnan harm sinn í hljóði; honum blæddi inn.

Árið 1890 kvæntist Magnús skáld í annað sinn, og gekk þá að eiga Laurentíu Mikolínu Fellsted; hún var ættuð af Vestfjörðum; þau áttu ástúðlega samleið í 22 ár; hún átti við langvarandi vanheilsu að stríða og lést árið 1912.

Magnús skáld á þrjú börn á lífi, frú Guðfinnu De Haven, sem á heima í borginni Cincinnati í Ohio-ríkinu, frú Jónínu Safford, sem býr með föður sínum og Hannes, sem fyrir nokkru er kominn heim úr herþjónustu; hann gegndi foringjastöðu í flughernum og er búsettur í bænum Sudbury í Ontario-fylkinu; eru börnin um alt hin mannvænlegustu og ástúðleg í garð föður síns. Auk áminstrar dóttur af fyrra hjónabandi, misti Magnús eftirgreind börn: Guðfinnu á fyrsta ári, Ólaf 11 ára, Philip 21 árs og Ólafíu 25 ára, vel gefin og ágæt börn.

Magnús skáld var á yngri árum nafntogaður hlaupagarpur, og vann þrisvar sinnum fyrstu verðlaun, sem greidd voru í álitlegum skildingum, fyrir kapphlaup; öll kapphlaupin voru þreytt í Winnipeg.

Magnús skáld hefir unnið að margvíslegum störfum um dagana; fyrstu árin vestra vann hann við hvað, sem til féll. Árið 1906 fór hann til Íslands sem umboðsmaður útflutninga fyrir hönd Canada-stjórnar; næsta ár fékk hann fasta atvinnu á innflutningaskrifstofu sambandsstjórnarinnar í Winnipeg; stundum gaf hann sig við fasteigna- og farandsölu, en síðustu starfsárin var hann í þjónustu Winnipeg-borgar. Hann hefir jafnan þótt ötull starfsmaður að hverju, sem hann gekk.

Auk sinna tveggja ljóðabóka, *Ljóðmæli*, Wpg. 1904 og *Hljómbrot*, Wpg. 1924, á Magnús mikið ljóðasafn í handriti; hann hefir ort mikið á síðari árum, og má sumt af því telja til hans bestu kvæða; og víst er um það, að á kvæðunum tveimur, sem greinkorni þessu eru samferða, verður engra ellimarka vart.

# Tvö Kvæði

Eftir Magnús Markússon

---

I.

## Kári í brennu Njáls

Í helþrungnum voða, hann beið ekki boða,
við brennunnar æði,
frá vinanna böndum, með hjörinn í höndum,
og hálfbrunnin klæði,
hann þaut gegnum reykinn, við þrautharða leikinn
á þjóðkunnu svæði.

Til vina hann náði, og tíðindin tjáði,
af tjóni og báli,
frá brennunnar fjöndum, með blóðugum höndum,
sem bönuðu Njáli,
og harmandi þjóðin, varð hrifin af móði,
að hefna með stáli.

En Kári vann eiðinn, þó löng væri leiðin,
að leggja að fjöndum,
með eldfjör í huga, að deyða og duga,
með dörinn í höndum.
Það heiti hann greiddi, svo ævinni eyddi
í ástvina böndum.

Hann lifði daga blíða og bjarta
á braut frá grimmum orra klið,
með frægðar orð, en frið í hjarta,
og fagra brúði sér við hlið.
En orðstír Kára lifir lengi
með lýðsins þrótt, og speki Njáls,
því vit og manndáð stillir strengi
þó streymi öldur hels og báls.

II.

## Sumardagur 1945

Um himinn, höf og storð
við herrans nægta borð,
sér lyftir alt með ljúfum gleði hljómum.
Hvert fræ sem moldin fól
er faðmað dagsins sól
og duftið klæðist blíðum æsku blómum.

Nú yngist alt í dag
við endurbættan hag,
og lífið finnur töfrakraft í taugum,
eg lít á farna leið
um lífs míns þroska skeið,
með táp og von, hjá tímans björtu laugum

En tæp er sælu tíð
með töfra ljósin blíð,
er sumar mætir haustsins fangi hörðu,
þá blikna fögur blóm
við bitran skapadóm,
því alt er veikt og valt á tímans jörðu.

En meðan sumar sól
oss sendir þrótt og skjól,
er skyldan hæst að vanda ráð á vegi.
Þá hræðir oss ei haust,
oss huggar von og traust
á ljóssins vald með vorsins blíða degi.

# Frá landnámsöldinni

Eftir Guttorm J. Guttormsson

---

Þegar þið, góðir hálsar, ferðist í ykkar fítons vögnum um eggslétta vegi hins forna landnáms, Nýja-Íslands, og sjáið til beggja handa reisuleg bændabýli, kauptún og háa kirkjuturna, væri vel ef þið mintust þess, að í þann tíð sem hinir fyrstu íslensku landnámsmenn settust hér að, var hér hvorki vatn né land þ. e. a. s. það var ekki nógu þurt til að vera land, og ekki nógu blautt til að vera vatn. En til þess að vaða ekki upp í konungsnef og komast á þurran blett, hafa þurt undir fótum, var eina ráðið að róa á lekalausum dalli út á Winnipeg vatn.

Guð lagði því bara efnið til í landið, og það heldur lélegt, en mennirnir sköpuðu það í þeirri mynd sem það nú er.

Í fljótu bragði virðist ekki hafa verið nauðsynlegt að skapa land þar eð nóg var til "ready made". En þess ber að gæta að alt það land var uppétið af engisprettum. Og því til afsökunar að íslenskir innflytjendur voru sendir hingað er það, að Nýja-Ísland var þá svo vont að engispretturnar vildu það ekki, þær treystu sér ekki til að lifa á því, og heldur en leggja sér það til munns drápust þær, svo að líkkösturinn var sex fet á hæð í Rauðárósunum.

Hinum fyrstu íslensku landnámsmönnum er helgaður heiðurinn fyrir þetta mikla sköpunarverk, en guðs er ekki getið. Vil eg ekkert úr heiðri þeirra draga. Þeir voru að minsta kosti upphafsmenn, forvígismenn og frumherjar fyrir tilstilli örlaganna. En þeir báru ekki alla byrðina, ekki allan kostnaðinn sem flaut af sköpunarverkinu. Það hafa allir íbúar bygðarinnar gert, ungir og gamlir, í hartnær sjötíu ár. Minnisvarði landnemanna, sem stendur á Gimli, hefir því orðið táknrænn af tilviljun; smásteinarnir eru auðvitað íbúar sveitarinnar, en þetta heljarbjarg sem hvílir ofan á þeim mun eiga að tákna sveitarstjórnina.

Því var í fyrndinni haldið fram af ýmsum, að það væri úrkast íslensku þjóðarinnar, sem flutst hefði til þessa lands. Þá voru aðrir sem staðhæfðu að úrkastið væri hið raunverulega úrval, því það veldist úr því sem eftir yrði, en það sem eftir yrði veldist ekki úr því sem færi og væri því ekki úrval. Sannleikurinn er sá, að þessir innflytjendur voru upp og ofan, eins og gerist og gengur, afburðamenn, meðalmenn og liðléttingar, þeir síðastnefndu í miklum minnihluta.

Um andlegt atgervi heyrði eg lítið talað. Þó heyrði eg getið um einn sem talinn var spekingur, en spekina heyrði eg aldrei. Reyndar er það enginn mælikvarði, því vitrir menn hafa það til að segja vitleysu, en heimskir menn háfleyga speki óafvitandi. Aftur á móti var líkamlegt atgervi mjög í hámælum haft, eins og til dæmis, þegar bátur fraus niður úti

á vatni og einn farþega, sem var Íslendingur, hljóp til lands á svo veikum ís, að upp kom vatn í hverju hans fari. Hann hafði brotið ísinn í hverju spori, en ekki haft tíma til að sökkva.

Margir gátu sér orðstír fyrir ástundun og þolgæði, svo sem þeir, er að lokinni tíu klukkutíma þrælavinnu við sögunarmylnu, börðu niður skóginn langt fram á nætur til að stækka rjóðrin í kring um húsin. Vinnubrögð, sem tíðkuðust þá við sögunarmylnur og lengi fram eftir árum, þekkjast ekki nú á dögum. Menn voru látnir bera á öxlinni stór tré frá sögginni og stafla þeim upp í háa hlaða. Varð þetta einum þeirra að bana. En söguriti nýlendunnar færði þann atburð til Selkirk. Á hann þakkir skildar, — ekki þeirra í Selkirk, heldur okkar — fyrir hreinsunarmeðalið.

En eg sá og vissi aðra sitja uppi á girðingunum eins og svarta fugla meðan konurnar hlúðu að kartöflu plöntunum. Ef konan var veik og gat ekki mjaltað kúna, var sent á bæi eftir annari konu. Það náði ekki neinni átt að bóndinn legði sig niður við svo lítilfjörlegt verk. Eg þekti einn, sem ætlaði að drepa jarðsvín (groundhog) með þeim hætti að fella á það tré, og beið dýrið rólegt meðan bóndi var að höggva. En tréð féll í öfuga átt við það sem því var ætlað og var nærri búið að drepa hann sjálfan.

Að sjálfsögðu hefir gott efni og upplag verið í hinum íslensku landnámsmönnum yfirleitt, því örðugleikarnir brýndu jafnvel hina deigu. Þegar smá óhöpp hentu þá, heltu þeir sér út í kjarnyrðum, en við aðkomu hinna stóru setti þá hljóða. Þegar mest reyndi á vissi eg engan missa móðinn né láta sér detta í hug að hengja sig. Allir, sem eg hafði kynni af voru undantekningarlaust drengskaparmenn. Það þótti merkilegt í þá daga. Það þykir ekki merkilegt nú á dögum, heldur hitt, að þeir skyldu hafa þrek og þrautseigju til að berjast baráttu sinni vonlausir um eigin sigur, með ekkert að sætta sig við annað en það, að niðjar þeirra mundu njóta arðs af vinnu þeirra og uppskera það er þeir sáðu.

En hvað hefir orðið efst á baugi? Niðjarnir hafa selt frumburðarrétt sinn fyrir baunadisk. Hin fornhelgu óðul landnámsmannanna ganga nú óðum úr greipum þeirra og gerast eignir Galisíumanna. "Arkarsmiðir unnu gagn, en aðrir nutu". Landnemarnir gerðu gagn en Gallar nutu.

Samt dettur mér ekki í hug að halda því fram, að heimurinn fari versnandi. Ekkert getur verið fjær sanni en það, að unga kynslóðin standi hinni eldri að baki. "Fjarlægðin sem gerir fjöllin blá" er og völd að því að menn sjá ekki sína samtíðarmenn, en setja þá sem sálaðir eru í guða tölu.

Kímniskáld í Bandaríkjunum að nafni Bill Nye komst mjög við af hetjudýrkun landa sinna og því dálæti sem þeir höfðu á George Washington. Í smágrein, sem hann skrifaði um það efni, benti hann á, að þrátt fyrir allan mikilleik hefði George Washington haft sína veiku hlið, að hann hefði verið álíka kröftugur í bölvi og bænahaldi, fyrir hans óviðeigandi munnsöfnuð hefði ísinn á Delaware brotnað upp og ána leyst að vorinu viku fyrir tímann. En Bill Nye sagðist einnig leyfa sér að benda ungum mönnum í Bandaríkjunum á

að meira þyrfti til að líkjast George Washington en það að bölva eins og hann og ennfremur — til að verða annað eins skáld og Edgar Allan Poe þyrfti meira en að hella í sig "Old Crow Brandy".

Til allrar guðslukku hafa afkomendur hinna íslensku landnámsmanna gert meira en jafnast við feður sína í því sem þeim fórst verst úr hendi og munni. Hörmulegt hefði það verið í viðlag við sigurlaust frumbýlingsstríð, ef niðjarnir hefðu reynst ættlerar og örkvisi. Erfðasyndin og annað góss er víst hvergi eins arfgengt og með Íslendingum; fyrir því hafa niðjarnir allflestir reynst, vægast sagt, enir merkilegustu menn.

Þess hefir gætt í okkar ný-íslenska þjóðlífi að þjóðsögur hafa myndast í sambandi við merkilega menn, sem skipað hafa öndvegi í huga almennings. Er það í alla staði þjóðlegt og virðingarvert. Ný-Íslendingum væri illa í ætt skotið ef þeir væru ekki söguþjóð. Hefir Þjóðræknisfélagið ærið verk fyrir höndum að safna þessum þjóðsögum og annast um útgáfuna. Ein þeirra virðist falla hér í viðeigandi umgerð og varpa eilitlu ljósi á málefnið.

Einn af sonum landnemanna var í senn svo veikur að hann gat ekki lifað og svo hraustur að hann gat ekki dáið. Uppskurðir voru þá farnir að tíðkast á General Hospital. Var þessi hrausti sjúklingur — einn af sonum landnemanna — fluttur á spítalann og "lagður til" á uppskurðarborðinu. Hann vildi ekki láta svæfa sig, óttaðist að hann mundi ekki vakna, vildi komast snemma á fætur og fara norður á vatn til að veiða nálfisk.

Læknarnir tóku sér nýja hnífa í hönd og tóku að skera, en til undrunar fór bitið óðar úr hnífunum. Þeir brýndu þá og brýndu sem ákafast, bæði með heinarbrýni og á lóanum á sér, brugðu á skeggið á sér til að sjá hvort biti á hár, og reyndu svo aftur að skera, en alt fór á sömu leið: hnífarnir urðu hvítir í eggina, svo eins hefði mátt sarga með bakkanum. Þá settu þeir í flýti á sig gleraugun og tóku að skygnast inn í sárið. Og sjá, það glitti í eitthvað logagylt í sárinu. Þetta var það sem hnífarnir höfðu ekki bitið á! Þarna var þó nokkuð sem ekki hafði staðið í læknisfræðinni. Aldrei höfðu þeir tekið próf í þessu og voru samt Doctorar af Medicine.

Eftir að hafa sagað víðar í sjúklinginn og allsstaðar orðið fyrir því sama, komust þeir að þeirri vísindalegu staðreynd að alt taugakerfi sjúklingsins var úr látúnsvír. Nú fóru þeir að skilja, hví hann hafði þolað öll meðulin, sem þeir höfðu gefið honum inn og ekki átt við sjúkdóminn.

En hvernig var þessu háttað um byggingu mannsins? Hvað olli þessu afbrigði?

Til þess að reyna að leysa úr þeirri ráðgátu í þarfir vísindanna, en ekki til að lækna sjúklinginn, tóku þeir að rannsaka ætt hans og umhverfi, erfðalögmál og breytiþróun, og urðu þess brátt vísari, að íslenski landnámsmaðurinn, faðir sjúklingsins, hafði veitt "rabíta" í snörur úr látúnsvír, og af hungrinu, sem var í Nýja-Íslandi á fyrstu árunum, hafði hann gleypt "rabítana" með snörunum og öllu saman og þetta komið fram á afkvæminu.

Ekki get eg skilið svo við þetta

erindi að eg ekki minnist á landnámskonurnar. Hefir ekki helsti hljótt verið um þær? Hafa þær ekki setið undir skuggunum, sem eiginmenn þeirra áttu með ofbirtunni?

Eg þori að fullyrða, að í mörgum tilfellum — ekki nærri öllum — voru þær mönnum sínum fremri, sýndu að þær höfðu meiri skörungsskap en þeir og meiri hæfileika. Einar urðu þær að sjá um heimilin — hús fult af börnum og engu öðru — og gefa sig við gegningum úti við, meðan karlarnir voru einhversstaðar fjarverandi að gaufa. — Enskuna lærðu þær á undan mönnum sínum, einkum þeim sem héldu að enska væri ekkert annað en afbökuð íslenska og kölluðu Winnipeg vinnupikk, Bad Throat matrós, Loon Strait jónsstrít, British Columbia Krists kólolíu. Ef þær hefðu ekki verið til að túlka í viðskiftum við enska, hefðu þeir verið rúineraðir og demoliseraðir. Stephan G. lýsir þessu ástandi í vísunni:

Hann yfir honum ensku les
og alt af segir bóndinn yes,
en kerla um skrágat skrækir inn:
Æ, skilurðu nokkuð, góði minn?

Eitt, sem auðkendi þær öðru fremur, var þjóðararfur sem þær höfðu flutt með sér heiman af ættjörðinni — það var áberandi hreinlæti. Eg þekti konu sem nuddaði þvottinn á þvottagrindinni þangað til gat var komið á flíkina. Ekki fyrr en þá gat hún gengið úr skugga um að flíkin væri hrein orðin. Hún burstaði eldavélina sína, þangað til hún gat speglað sig í henni. Auðvitað gat hún ekki burstað gat á járnið. En um það leyti sem hún hætti var lítið orðið eftir af burstanum.

Enskur skólaeftirlitsmaður kom einu sinni inn í húsið til hennar og sagði að gólfið væri svo hreint að hann gæti sleikt það. En sú fyrirhöfn að halda þessu fjalagólfi hreinu! — Húsið hafði missigið og var gólfið hæst í einu horninu. Þegar hún var að reyna að þvo gólfið þarna í horninu rann hún altaf á hnjánum, á hálkunni, sem stafaði af sápunni, aftur á bak ofan brekkuna, með gólfstraumnum, og hefði ekki stöðvast, nema fyrir það, að þá fór gólfið aftur að hallast upp í móti.

Allir örðugleikar, allar þrautir, allar þjáningar hjuggu nær konunum en mönnunum, þótt þess sé nú í fyrsta sinni getið. Ekkert getur betur átt við þær, allar sem eina, en þessi orð Davíðs konungs:

Hennar fórn, hennar ást,
hennar afl til að þjást
skal í annálum sjást,
verða kynstofnsins hróður.
Oft mælir hún fátt,
talar friðandi lágt.
Hinn fórnandi máttur er hljóður.

Ekkert lof getur verið ofsagt um þær góðu og göfugu mæður. Ef þær hefðu ekki kent börnum sínum stafrof íslenskunnar væri hér enginn Íslendingadagur, ekkert Þjóðræknisfélag, engin vestur-íslensk blöð og sjóntauginni slitið — sambandinu við augasteininn í hafsauganu.

# Nýfundnaland—landið hálfgleymda

Eftir prófessor Helga Johnson

Frá örófi alda höfðu hinar risháu öldur Atlantshafsins reynst óyfirstíganlegar hinni eirðarlausu þrá mannsandans eftir víðari og breiðari sjóndeildarhring hins þekta heims. En þegar víkingarnir lögðu út á djúpið í vesturátt og fundu Færeyjar og því næst Ísland, var fyrstu áföngunum náð. Löngu síðar, þegar Eiríkur rauði leitaði landa í vestur og fann Grænland, og Leifur sonur hans nokkru síðar Vínland, opnuðust mannlegri framsókn nýir heimar og ný viðfangsefni. Það hefir að réttu lagi verið talið eitt hið stærsta þrekvirki í sjóferðum á öllum tímum, þegar Leifur sigldi í hinu smáa og veikbygða drekaskipi yfir Atlantshafið frá Noregi til stranda Vesturheims án viðkomustaðar á leiðinni. Eftir það lágu leiðirnar til vesturs yfir þrjár risavaxnar stiklur Atlantshafsins, sem nú hafa verið teknar upp aftur á þessari nýsköpuðu loftferða öld.

Ísland, Grænland og Nýfundnaland eru nöfn, sem ekki verður gengið framhjá í sjóferðasögu Vestur-Evrópu þjóðanna til hins nýja meginlands í vestrinu. Öldum saman var sneitt framhjá þessum löndum og þeim nærri því gleymt í hinu stjórnlausa kapphlaupi um verslun og völd þeirra þjóða, sem mest höfðu þó haft upp úr fundi þeirra.

Saga Íslands og Grænlands er íslenskum lesendum of vel kunn til þess að nokkru sé við bætandi hér; en fáeinar línur um Nýfundnaland eru, ef til vill, ekki ótímabærar nú, þegar það er smámsaman að ná réttmætri viðurkenningu í félagsskap menningarþjóðanna, og þúsundir af herskörum sambandsþjóðanna hafa átt setu eða stansað á ferð sinni til vígstöðvanna eða frá þeim á þessu nálega óþekta landi.

Nýfundnaland liggur eins og stór þríhyrningur úti fyrir mynni St. Lawrence flóans, milli 47 og 52 gráðu norðlægrar breiddar og 52.30—59.30 lengdarstigs í vestur. Það stendur eins og útvörður á leiðinni til Norður-Ameríku, en er aðskilið frá meginlandinu af níu mílna breiðu sundi að norðan, sem kent er við Bell Isle (Klukkuey), en að vestan og sunnan af St. Lawrence flóanum og Cabotsundi. Það var vafalaust eitt þeirra landa, er Leifur fann; og sterkar líkur eru fyrir því, að það hafi verið Markland, sem getur í sögu Vínlands ferðanna.

Það var samt ekki fyr en vorið 1497, að John Cabot[1]) sigldi í 50 smálesta skipi frá Bristol á Englandi og fann þessa stórvöxnu ey aftur. Í ágústmánuði samsumars kom hann til baka og tilkynti þeim, er kostuðu

---

1) Sjá: Columbus og Cabot, eftir próf. Halldór Hermannsson í 23. árg. þessa tímarits.



Stöðuvatn á vesturströndinni, myndað af skriðjöklum. Klettabeltin eru yfir 2000 fet á hæð, og vatnið sjálft 1000 feta djúpt, en 5 mílum vestar eru grynningarnar og afrenslið um 30 fet yfir sjávarmál.

för hans, fund sinn. Hann lýsti fyrir þeim hinum auðugu fiskmiðum og hinu fjölbreytta dýra og fuglalífi, er hann varð var í þessu *ný-fundna landi*. Viðurkenning sú, er hann fékk hjá Hinriki konungi VII. og öðrum kostnaðarmönnum fararinnar, og sagnirnar um hin auðugu fiskimið í kringum strendur landsins vöktu allmikla eftirtekt á meðal fiskimanna við vesturstrendur Evrópu landanna. Brátt tóku fiskiskip frá Englandi, Portugal, Frakklandi og Spáni að leggja leiðir sínar þangað til þess að ausa af auðlegð landsins og fiskimiðanna. Hjá því gat því ekki farið að landnám hófst í sambandi við fiskiverkun, skipaafgreiðslu og aðhlynningu fiskimanna, sem komu að úr margra mánaða sjávarvolki. Við marga firði og hafnir á austurströndinni, þar á meðal St. John's, sem nú er höfuðborgin, mynduðust regluleg kauptún löngu áður en landnám hófst á meginlandinu.

Þetta er í fáum dráttum sagan um fund og fyrsta landnám á Nýfundnalandi. Þó undarlegt megi virðast festist þessi nafnleysa við landið, og er ekki erfitt að hugsa sér, að hefðu forfeður vorir náð að festa þar rætur, hefði það borið virðulegra og líkingarfyllra nafn.

Að flatarmáli er Nýfundnaland að eins lítið eitt stærra en Ísland, eða í kringum 43,000 fermílur enskar, að meðtöldum eyjum, hólmum og skerjagörðum hringinn í kring um strendur þess. Með þessu eru vitanlega ekki taldar 110,000 fermílur af Labrador



Bergvatn inn á milli fjalla á vesturströndinni; var fyrrum fjörður, en lyftist upp fyrir sjávarmál, þegar ísöldinni lauk.

skaganum (Furðustrendur), sem Nýfundnalandi voru veittar með dómi breska leyndarráðsins 1. mars 1927. Landið er 317 mílur á lengd frá Rayhöfða á suðvestur ströndinni til Norman-höfða á skaga þeim hinum mikla, er í norður snýr. Breidd þess frá Anguille-höfða til Spear-höfða er álíka og lengdin. Til samanburðar má geta þess, að Ísland er um 39,000 fermílur að flatarmáli.

Ferðamenn, sem sjá landið í fyrsta sinn, bera það oft saman við Noreg eða Skotland, vegna þess hversu svipllík þau eru tilsýndar. Eins og þau er það fjöllótt hálendi, hefir norðlægt sjávarloft, og er mjög vogskorið, með löngum og hlykkjóttum fjörðum og flóum, umluktum af brimbörðum sjávarhömrum, klettabeltum og standbjörgum, sem víða gnæfa svo hundruðum feta skiftir upp úr ólgandi hafsvelgnum. Að eins til og frá eru lygnar hafnir og skipalægi, grafin af vindum, veðrum og brimgangi inn í klettótta ströndina, eða inn úr botnum hinna stærri fjarða og flóa. En samt eru sjálfir firðirnir svo geysistórir, að hver um sig gæti rúmað allan herskipaflota veraldarinnar án þess að þrengja að sér, og þó nokkur í viðbót.

Langfegurstu firðirnir skerast inn í vesturströndina nálægt miðju landsins. Þar teygja Eyjafjörður (Bay of Islands) og Fagrifjörður (Bonne Bay) salta sjávarfingur 30 mílur inn í hálendið. Báðir þessir firðir eru eins og hálfsnúin hendi með þremur fingrum, sem þrengja sér alveg inn undir brúnir Lönguhlíðarfjalla (Long Range Mountains). Afleiðingarnar eru auðvitað þær, að ströndin rís víða undirlendislaus frá hafinu upp í hrjóstruga og gróðurlausa tinda, sem sumstaðar eru yfir 2500 fet á hæð. Samt eru hlíðarnar ið neðra gróðursælar, þaktar greni og furuskógum, auk birki og mösurtrjáa og ýmissa blómrunna. Smám saman hefir skógurinn þó verið höggvinn til bygginga og eldsneytis, og fyrir tún og garða. Eyjafjörður og nærliggjandi Fljótsdalur (Humber River Valley) eru nú orðin þéttbýlustu héruð landsins, sem lifa góðu lífi á fiskiveiðum, landbúnaði, skógarhöggi, og þeim iðnaði, sem af því

leiðir. Þar er líka ein hin stærsta pappírsmylla heimsins.

Hinir mörgu og stóru firðir og flóar að norðan, austan og sunnan lands eru á ýmsan hátt ólíkir vestfjörðunum. Alstaðar eru stærri eða smærri bygðarlög með ströndum fram, ýmist friðsæl og gróðrarrík eða hrjóstrug og kuldaleg. Er meiri tilbreyting óvíða að finna við sjávarsíðu annara landa.

Miðbik landsins er yfirleitt flatt að ofan — hallfleytt upplendi eða háland (Plateau) með mjóu undirlendi á vesturströndinni. — Brún Lönguhlíðarfjalla rís snögglega upp í 2000—2500 feta hæð yfir sjávarmál. Síðan hallar hálendinu smátt og smátt til austurs þangað til meðalhæðin er um 700 fet meðfram austurströndinni. Yfirborðið er blásið og sundururið af ám og lækjum, sem grafið hafa djúpa dali í gegnum gljúpar bertegundir milli granít og granít-gneiss ganga, og stefna frá norð-austri til suð-vesturs.

Þegar hin mikla ísöld gekk yfir norðurhvel jarðar var Nýfundnaland eins og Grænland og Ísland alt jökli þakið, sem hvíslaðist í allar áttir frá þungamiðjunni. Þannig hafa skriðjöklarnir skafið yfirborðið og dýpkað og stækkað alla dali; en eftir eru í milli nokkurn veginn hliðstæðar jökulurðir og ýtur, berar klappir og stök björg (Grettistök) á uppi. Inn á milli eru þúsundir tjarna og vatna, víðáttumiklar lægðir með mómýrum og flesjum; og er svo háttað um mikinn hluta hálendisins. Til og frá rísa upp úr hálendinu súlumyndaðar hæðir og granít-tindar, sem sjófarendum og fiskimönnum fanst líkjast seglum skipa sinna og gáfu þeim nöfn eftir því, nöfn blandin sjávarseltu og sjóara málhreim.

Þegar ísöldinni létti reis landið alt undan þunganum og hallaðist til austurs, sem leiddi af sér, að dalirnir, sem dýpkað höfðu undan ísnúningnum, urðu að fjörðum þeim, er vér nú sjáum, jafnframt því að strandlengjan breyttist í lögun. Vesturströndin, aftur á móti, hækkaði svo, að í mörgum dölum, sem áður voru firðir og saltir vogar, (s.s. Portland Pond, Parson's Pond, St. Paul's Inlet, Western Brook Pond, o. s. frv.) eru eftir hrein stöðuvötn eða hálfsölt lón með rifi fyrir framan, sem aðeins vatnar yfir við stórstraums flóð. Eyjafjörður, Fagrifjörður og Haukafjörður eru þó enn druknaðir dalir vegna þess, hversu geysidjúpir þeir voru, áður en landið lyftist.

Af því, sem áður er sagt, er auðvelt að sjá, að upplönd Nýfundnalands eru sneydd öllum verulegum jarðvegi, og þess vegna óhæf til ræktunar eða búskapar. Margir fjalladalirnir, sem tóku á móti framburði íss og árstrauma ofan af hálendinu, undirlendið á vesturströndinni og allir hinir stærri dalir inni í landinu eða út við ströndina, hafa alldjúpan jarðveg, mestmegnis af jökla og árframburði, sem er framúrskarandi gróðursæll. Skógur stórvaxinn þekur nærri fjórðung als landsins, og er hann höggvinn í stórum stíl fyrir sístarfandi pappírs myllu iðnað og sögunar myllur, sem framleiða nauðsynlegan við til bygginga og eldsneytis. Þar, sem skógarnir hafa verið höggnir, er landið oft notað til akuryrkju, enda þótt jarðvegurinn sé enn illa ræstur og hálfsúr.

Landið er fult af stöðuvötnum og



Nokkur hluti af viðarforða pappírsmyllunnar við Grand Falls. (Stóru fossa).

ám — mörgum stórum og undra fögrum. Miklavatn (Grand Lake) er 56 mílna langt og tekur yfir 200 fermílur, enda stærsta stöðuvatn landsins. Næst eru Rauðskinna-vatn (Red Indian Lake) 37 mílur, Gæsavatn (Gander L.) 22 míl. og Hreinsvatn (Deer L.) 15 mílna langt. Auk þess eru bókstaflega þúsundir smærri vatna og tjarna víðsvegar um alt landið, sem enn hafa ekki hlotið nein nöfn. Úr þessum geysilega vatnaklasa streyma álíka margar ár og lækir. Sumar vatnslitlar, stuttar og straumharðar, hoppandi niður hlíðarnar, hjalla af hjalla, í strengjum, flúðum og fossum, aðrar lygnari og hægstreymari, eins og t. d. þær sem vatnadrög hafa af mörg hundruð fermílna svæði. Meðal þeirra má nefna Exploits, Gander, Humber, Terra Nova, Gambo og Grand Codroy ár, sem allar eru vatnsmiklar og skipgengar. Í félagsskap alþjóða önglaveiðara, sem alstaðar eru sér úti um nýjar veiðistöðvar til að reyna við kunnáttu sína, eru þessi árnöfn fræg fyrir hinar ótrúlegustu sögur af laxa og silunga drætti, sem þeir hafa sagt yfir skálum í London eða Liverpool, Chicago eða San Francisco, Winnipeg eða Wilmington, er svo hafa verið lánsamir að hafa kastað færi og dregið silfurlitaðan hæng eða stórlax úr þessum köldu, kristalstæru bergvatnsám. En þessar sömu ár, stórar og smáar, eru nú óðum að verða hagnýttar í mannfélags þarfir, því auk þess, sem þær hafa verið beislaðar til rafmagns framleiðslu fyrir iðnað og heimanotkun, eru þær einnig hafðar til að fleyta viðarbjálkum skóganna niður til hinna síhungruðu pappírs- og sögunarmyllna.

Trjágróðurinn í dölunum og á undirlendinu, hin mörgu og dreifðu stöðuvötn og vatnaföll um alt landið, mosaþembur og berjurunnar uppi um hrjósturlöndin, er alt bein orsök til hins mikla og fjölbreytta fugla og dýralífs. Skógarhreinninn (Woodland Caribou) rásaði fyrir eina tíð um alt landið í óteljandi hjörðum. En vegna ótakmarkaðs veiðiskapar, var hann nærri upprættur. Skynsamleg friðun nú á seinni tíð hefir samt bjargað þessu tignarlega dýri frá eyðileggingu, svo nú reika nokkur þúsund uppi um mosagróin, lyngvaxin heiðalöndin. Moose-dýrið var þar ekki landlægt; en fyrir nokkrum ár-



Fiskireitur, þar sem þorskurinn er verkaður og þurkaður til útflutnings. Cooks Harbour, fyrir norðurlandi.

um var það flutt inn frá Canada, og hefir fjölgað svo ótt, að á síðastliðnu ári var veiðimönnum í fyrsta sinn leyft að skjóta það. Svartir og brúnir birnir, og öll hin helstu loðdýr, svo sem Lynx, Bifrar, Otrar, Sefrottur, Refar og Hérar eru af nægilegri mergð, til þess að ala önn fyrir allstórum hóp gildruveiðara, og gefa af sér margbreytilega grávöru.

Fjöldi söngvinna farfugla eru þar á sumri hverju; og grúi af sundfuglum, svo sem andir, gæsir og alskyns sjófuglar, eru þar ýmist árið um kring eða búa þar sem glaðir sumargestir. Ernir, haukar, uglur og hinir alstaðar nálægu hrafnar og krákur, sömuleiðis lóur, spóar, orrar, og hinir mest eftirsóttu fuglar, rjúpurnar, eru þar af mikilli gnægð mönnum til fróðleiks, gleði eða gagnsemda, alt eftir því, er hverjum þóknast best.

Þveröfugt við almenningsálitið er loftslagið í Nýfundnalandi milt, temprað og þægilegt, algerlega laust við þann ofsa hita eða kulda, sem svo víða á sér stað inni í meginlandi þessarar álfu. Jafnvel hin svonefndu þokusvæði eru ekki þokugjarnari en strandafylki Canada eða hin nyrðri ríki á sjávarsíðu Bandaríkjanna. Hlýir dagar og svalar nætur einkenna sumar mánuðina. Í júlí og ágúst getur hitinn orðið 80 stig F. eða meira, og stundum eftir heita sólskinsdaga og rigningarleysi, er jörðin svo skraufþur, að hætta getur staðið af skógareldum. Mild veðrátta helst fram í október eða jafnvel nóvember, og harðir vetrar eru óþektir, nema þá helst á norðurskaganum. Í St. John's, höfuðborginni, verður frostið sjaldan meira en 32 gráður (zero) F. og allar hafnir á suðurströndinni eru ólagðar árið í kring. Snjór liggur á jörð frá jólum til apríl loka, og að undanteknum einstöku manndráps byljum og hvassviðrum eru snjóalögin aldrei til stórra óþæginda. Vorið er að ýmsu leyti leiðinlegasti tími ársins þar, því það er kalt, rigningasamt og þokubundið, einkum þó með ströndum fram; helst það vanalega frá apríl lokum og fram yfir miðjan júní mánuð. Þessi langvinni rosatími orsakast af hinum köldu hafstraumum, einkum Vestur Grænlands straumnum, sem flytur með sér fjall-

jaka og hafísbreiður suður með ströndum landsins. Þetta tefur oft sáningu og jurtagróður svo mjög, að túlípanar, daffódílar og lælakar blómstra ekki fyr en í fyrstu viku júlímánaðar. Kál, rófur og aðrar matjurtir eru ekki settar í jörð fyr en eftir miðjan júní. Úrkoman er mátuleg og nokkurn vegin jöfn árið um kring, að jafnaði 45—50 þumlungar á ári; og af þeim ástæðum eru tún og hagar í Nýfundnalandi eins fagurgræn og á Írlandi, Færeyjum eða Íslandi.

Ekki má svo við þetta skilja, að ekki sé minst íbúa landsins. Frumbyggjendurnir voru Indíánar, að líkindum hliðargrein af hinum norður-amerísku Algonquins; þeir nefndu sig Beotuks, og höfðu sérkennilega tungu og þjóðarsiði. Þeir voru herskáir og héldu vörð um frelsi sitt og sjálfstæði, og af því leiddi, að í byrjun nítjándu aldar höfðu þeir verið upprættir eða reknir á brott fyrir þýðingarlausar óeirðir við hina hvítu landnema. Montagnis-indíánar og Skrælingjar frá Larbador komu af og til yfir Klukkueyjarsund til fiski og dýraveiða, en virtust enga tilraun gera til að setjast að, og skildu því engar menjar eftir. Micmac-indíánar frá Breton skaganum í Nýja Skotlandi komu hingað einnig til veiða, að undirlagi og með tilstyrk hvítra manna, um miðja átjándu öld, en þeim mistókst einnig að festa hér rætur; og aðeins örfáir af niðjum þeirra búa í Nýfundnalandi nú á dögum. Ekki er ólíklegt að hinir hvítu íbúar Grænlands hafi komið hér við á ferðum sínum suður á bóginn í leit að byggingarvið og öðrum nauðsynjum; en hafi þeir nokkru sinni átt hér dvöl, þá sjást þess nú engin merki.

Þrátt fyrir það, að Englendingar, Frakkar, Spánverjar og Portugalar höfðu sett upp fiskistöðvar og kauptún skömmu eftir að Cabot fann landið, og að St. John's var alþjóða bústaður og í uppgangi, strax snemma á tíð, var engin veruleg tilraun gerð til að byggja landið fyr en Sir Humphrey Gilbert sigldi inn á St. John's höfn 1583 og setti landið formlega undir stjórn Elísabetar Englands drotningar. Um langan tíma eftir það voru sífeldar erjur í milli Frakka og Englendinga, því hvorir tveggja voru þá að berjast um yfirráðin yfir Norður Ameríku; síðar kom svo ameríska stjórnarbyltingin. En meðan á öllu þessu stóð, gleymdust hér um bil öll félags og fjárhags mál nýlendunnar, og bygging landsins stóð alveg í stað. Smámsaman var með málamiðlun og samningum liðkað svo til, að yfirráð Englands yfir landinu voru að fullu viðurkend seint á átjándu öld. Innflutningur var þá í fyrsta sinn leyfður, og fjöldi fólks streymdi nú inn í landið fult áhuga að leita hamingjunnar í nýju umhverfi. Írar voru þá öllum framar í því að flytja vestur yfir hafið. Síðan hefir verið stöðug, en þó hægfara, mannfjölgun í landinu; og nú eru í kringum 350,000 íbúar, aðallega af enskum, írskum og skotskum uppruna, ásamt strjálingi af niðjum hinna fyrstu Frakka, Spánverja og Portúgala. Flestir hinna síðast nefndu búa í litlum einangruðum kauptúnum og þorpum út með sjávarströndunum, og er langkærast að draga lífsuppeldi sitt úr sjónum. — Smámsaman hafa þeir þó látið leið-



Birkines, þorp við Fagrafjörð: Flötufjöll í baksýn. Fiskiveiðastöð og verslunarstaður fyrir Norðurskagann.

ast til, að taka upp skógarhögg fyrir pappírsiðnaðinn eða að vinna að námagreftri. Vegna margendurtekinna tilrauna stjórnarinnar hafa fáeinir tekið fyrir landbúnað sem aðalatvinnuveg. Yfirleitt fella þeir sig minna við landbúnað, enda þótt hér um bil allir hafi matjurtagarða og rækti kartöflur, rófur og annað grænmeti til heimilisþarfa.

Þetta fólk er einlægt og vingjarnlegt, og gestrisið við aðkomumenn; og það er auðvelt að skilja feimnina og fyrirgefa smá-forvitni í fari þess, þegar maður hugsar út í það, hve einangrað það hefir verið í gegnum margar kynslóðir. Flestir íbúar landsins eru fátækir, borið saman við íbúa meginlands Norður-Ameríku. Íbúðarhúsin byggja þeir oftast sjálfir; kumbaldaleg með lágu þaki, en hrein og þokkaleg. Stundum eru þau máluð í sterkum litum, en oftar þó hvítþvegin, eða algerlega ósnert af nokkru máli. Þau eru bygð að utan úr óhefluðum borðum, og oftar þiljuð eða klædd pappír að innan en kalklími. Vanalega eru þau kjallaralaus, því ýmist eru þau bygð ofan á berum klöppum, eða þar sem öðru vísi hagar til, ofan á stólpum og kubbum, sem reknir eru ofan í gljúpan jarðveginn. Litlar viðarstór eru hafðar fyrir hitun og eldamensku, og er viðurinn oft dreginn að langar leiðir að vetrinum á bátum eða sleðum, þar sem svo hagar til, að enginn skógur er. Á kvöldin koma menn oft saman í hinu hreina og rúmgóða eldhúsi og ræða þar við nábúana einkamál sín, stjórnmál eða fréttir utan úr heimi. Útvarpið hefir breytt geysilega skoðunum þeirra og

hugsunarhætti, því ekki aðeins fá þeir nú fréttirnar um leið og þær ske, í stað gamalla blaða og tímarita, heldur margir hverjir í fyrsta sinn á ævinni, því enn eru margir þar ólæsir. Þetta nýja samband þeirra við umheiminn hefir ákaflega mikil áhrif á þeirra litauðga mál, sem hefir haldist óbreytt í orðatiltækjum og framburði síðan á dögum Frobisher og Drakes. En innan um þetta fólk rekst maður enn af og til á gamla náunga, sem tala óspilta tungu Shakespeares, eða svo hreina írsku, að Cork-búar á Írlandi mættu þykjast stoltir af.

Garðarnir, fáein hænsni, eitt eða tvö svín, og kindur, fyrir ull, er það helsta, sem fólkið framleiðir sér til matar og klæðnaðar. Við þetta verður svo að bæta öðrum nauðsynjum, svo sem hveitimjöli, baunum, saltkjöti, sírópi og te, ásamt ytra klæðnaði, togleðurskóm og olíufatnaði, er þeir fá úr búðunum, og á það að borgast með næsta árs fiski; verður þetta til þess að margur fiskimaður er í skuld frá ári til árs, ef veiðin bregst, eða verðið lækkar á fiskinum.

Nýfundnalandsbúar eru mjög trúræknir, og skiftast í þrjá álíka margmenna trúflokka, rómversk-kaþólska, enska biskupakirkju og sameinuðu kirkjurnar, með fáeina sáluhjálparhermenn og aðra smærri kristna trúflokka. Víða kemur það fyrir, að eitt kauptún eða þorp tilheyrir aðallega einni kirkjudeild, og næsta þorp annari, sem leiðir til vinsamlegrar samkepni eða jafnvel safnaðarígs í milli nágrannanna.

Skólarnir eru enn kirkjuskólar, og eru studdir af kirkjudeildunum og landsstjórninni. Í stærri borgum og þéttbýli eru þeir yfirleitt eftir nýjustu tísku. En í afskektum smáþorpum og bygðarlögum eru þeir fátæklega útbúnir og kennarar illa launaðir. Nemendurnir eru líka langt frá því, að vera þyrstir í fræðsluna; þarf því mikilla umbóta á því sviði.

Lítil nýtísku sjúkrahús hafa verið bygð í nokkrum stærstu kauptúnunum, vanalega þar sem flestir geta orðið þeirra aðnjótandi. Áður en þetta var gjört ferðuðust litlir spítala-bátar frá Grenfell læknastofnuninni á milli og veittu þá hjálp sem hægt var. Þetta var vitanlega ófullnægjandi, og er því heilsufarið langt frá því að vera æskilegt, þegar og þar við bætist að berklaveikin og fjörefnaskortur í fæðutegundum eru altof algeng. Yngra fólkið er nú að vakna til meðvitundar um meira hreinlæti og hollara matarhæfi, sem vonandi verður til þess að bæta heilsufar fólksins.

St. John's er ein með elstu borgum hvítra manna á vesturhveli jarðar. Venjulegur íbúafjöldi hennar er um 45,000, en meðan á stríðinu stóð voru þar yfir 60,000 íbúar. Hún er höfuðborg landsins og er bygð á Avalon skaganum, sem liggur lengst í austur. Þar er ágæt höfn og þar koma við gufuskip úr öllum áttum. Þar er endastöð járnbrautarinnar, sem liggur í bugðu þvert yfir landið. Þar eru og flugvellir, og er hún í loftsambandi við allan heim. Keyrslubrautir liggja í ýmsar áttir út úr borginni, en engin þeirra nær langt enn sem komið er. Þar er miðdepill allrar verslunar, mentamála og menningar, og svo auðvitað landsstjórnarinnar. Borgin er bygð utan í breiðri hlíð, og



Spilda af St. Johns, höfuðborg Nýfundnalands.

sést út yfir innilokaða höfn, sem opnast út í hið breiða og víða Atlantshaf. Á ýmsan hátt er hún líkari borgum gömlu landanna en borgum Norður Ameríku. Strætin eru hæðótt og mjó, og sum enn lögð með hnullungagrjóti; húsin mórauð á lit og standa þétt, með óteljandi reykháfum. Samt eru þar margar fagrar byggingar, svo sem kaþólsku og ensku dómkirkjurnar, og einkum þó stjórnarbyggingin.

Aðrar borgir eru nálega allar með ströndum fram og eru að íbúafjölda frá 6500 og niður í smáþorp með örfáum fjölskyldum. Mörg þessi kauptún eru heillandi fögur; þau eru bygð eftir endilangri strendlengjunni, stundum svo mílum skiftir. — Kirkjan er stærsta byggingin og setur svip á þorpið. Út frá henni í tvær áttir liggja marglit húsin með hvítum rimlagirðingum umhverfis, sem skera sig úr við fagurgræna garða og dimmbláar skógivaxnar hlíðar í baksýn. Corner Brook við Eyjafjörð (6500 íb.) og Grand Falls við Exploits-ána (4500 íb.) eru bygðar í allra nýjasta stíl, því þær eru höggnar út úr óbygðinni eftir fyrirfram ákveðnum uppdrætti, fyrir pappírs verksmiðjurnar, sem þar eru reistar. Vatnsveitur, raflögnir og holræsi eru lögð um leið og húsinu eru bygð, og flest þeirra eru eign félagsins sem starfrækir myllurnar.

Iðnaðar stofnanir og verksmiðjur, aðrar en pappírs myllurnar, eiga aðallega heima í höfuðborginni, og framleiða vörur aðeins fyrir heimaþjóðina. Þetta er ekki ónáttúrlegt, þar sem landið er enn svo fáment og langt frá miðstöðvum allrar heimsverslunar, að lítt mögulegt væri að framleiða neitt til muna fyrir alþjóða markað.

Kol eru að vísu í landinu, en hafa þó ekki enn fundist í svo ríkum mæli að þau borgi gröftinn. Vatnskraftur



Greinarhöf. á lítilli klöpp. Straumhörð á fellur á flúðum og í fossum bak við og á báða vegu.

er nægilegur til rafmagns framleiðslu, en er mestur í þeim hlutum landsins sem torsóttast er að ná til. Málm rannsóknir og málmnám eru óðum að aukast, og járnrauði, eir og zink, flúorite og kalksteinn eru nú numin úr jörð í allstórum stíl í fjórum námum. Nokkur fleiri námafyrirtæki liggja nú í láginni og eru nægileg verkefni til margra ára. Aðal atvinnuvegir landsins er pappírs iðnaðurinn og fiskiveiðarnar. Hið fyrnefnda hefir lánast ágætlega á seinni árum, en því miður hefir fiskiverkun og önnur meðferð fiskafurða ekki tekið þeim framförum, sem nauðsynleg er, til að keppa við önnur lönd. Ýmiskonar ólag á fjárhag landsins stafar því beinlínis frá kæruleysi stjórnarinnar eigi síður en fiskimannanna sjálfra í því, að koma þessum iðnaði í það horf, sem aðrar þjóðir gera kröfur til.

Nýfundnalandi var ýmist stjórnað samkvæmt einkaleyfi eða þá af "Fiskikóngum" fram að árinu 1833, þegar breska þingið veitti því takmarkaða heimastjórn, sem var á þann veg, að þing var sett, er landsbúar máttu kjósa fulltrúa á, með landstjóra yfir, útnefndum af konungsvaldinu. Landið fékk fulla sjálfstjórn eftir fyrra heimsstríðið og var á sama tíma boðið að ganga í fylkjasamband við Canada, en hafnaði því; hélst þetta stjórnarfyrirkomulag fram að árinu 1934. Þá var landið sokkið í svo ó-botnandi skuldir, að það varð að gefast upp og gerast bresk nýlenda á nýjan leik. Síðan hefir því verið stjórnað af nefnd manna undir nýlendustjórn Breta. Þjóðin var fráleitt ánægð yfir þessum úrslitum; en verstu örðugleikarnir hafa verið yfirstignir, svo nú stendur til, að hún fái aftur í sínar hendur þá stjórn er henni að réttu lagi bar. Stjórnarnefndinni hefir auðnast, að koma aftur fótunum undir þjóðina fjárhagslega, mannfélagslega og efnahagslega, svo vonandi er, að þetta land, sem er svo auðugt af öllum náttúrufríðindum öðlist æ meiri og meiri hamingju og velmegun í framtíðinni.

**Athugasemd ritstj.** — Höfundur þessarar greinar hefir unnið að jarðfræðirannsóknum fyrir stjórn Nýfundnalands um nokkur undanfarin ár, í sumarleyfi sínu, og þekkir því landið og fólkið af eigin reynslu. — Myndirnar hefir hann tekið sjálfur.

# Davíð Stefánsson Skáld

Eftir prófessor Richard Beck

---

Hinn 21. janúar 1945 átti Davíð skáld Stefánsson frá Fagraskógi fimtugs-afmæli. Eins og vænta mátti, hylti heimaþjóð vor þetta ástsæla skáld sitt með mörgum hætti í tilefni af þeim áfanga ævi hans. Þakka- og kveðjuskeyti bárust honum úr öllum áttum. Ríkisútvarpið íslenska helgaði honum sérstakan útvarpsþátt. Mentaskólinn á Akureyri sýndi honum þann fágæta heiður að fara blysför heim til hans, og flutti Sigurður Guðmundsson skólameistari við það tækifæri snjalla og íturhugsaða ræðu fyrir minni hans. Háskóli Íslands vottaði skáldinu einnig virðingu sína með því að bjóða honum að lesa upp úr verkum sínum á samkomu, er Háskólinn stæði að; þáði skáldið það virðulega boð síðar á árinu, og var upplestri hans tekið með mikilli hrifningu, enda er það á allra vitorði, að hann er afbragðs upplesari og bráðmælskur í ræðustól, eigi síður en í rituðu máli, hvort sem er í lausu máli eða stuðluðu. Af hálfu Háskólans ávarpaði dr. Sigurður Nordal prófessor skáldið, og þarf eigi að efa, hverjum snildarhöndum þar hefir verið farið um jafn hugþekt efni og skáldskapur Davíðs er, en eigi mun það ávarp enn sem komið er hafa birtst á prenti, að minsta kosti hefir það eigi komið fyrir sjónir greinarhöfundar.



Hafa þá verið nefnd nokkur dæmi þess með hvaða hætti heimaþjóðin íslenska hélt hátíðlega Davíðs-messu síðastliðinn vetur, en þó hvergi nærri alt talið. Blöðin mintust að sjálfsögðu afmælis skáldsins með greinum um bókmentaferil hans og menningarstarf í þjóðar þágu, og völdust til þess hlutverks að rita um hann á þessum tímamótum hinir hæfustu og kunnustu menn úr hópi samtíðarskálda hans, svo sem þeir Halldór Kiljan Laxness, er skrifaði um hann í *Lesbók Morgunblaðsins,* og Guðmundur G. Hagalín, er birti grein um Davíð í *Tímanum,* og voru greinar þeirra beggja hinar prýðilegustu, glöggar og skilningsríkar, eins og búast mátti við og rök stóðu til.

En ofantalin dæmi þess, með hverjum hætti minst var heima á Íslandi fimtugs-afmæli Davíðs Stefánssonar, eru órækur vottur þess, hversu víð-

tækum vinsældum hann á að fagna af hálfu þjóðar sinnar, enda mun óhætt mega segja, að hann hafi, frá því að hann gaf út fyrstu ljóðabók sína fyrir rúmum aldarfjórðungi, verið ástsælasta skáld hennar. Jafnhliða má ugglaust fullyrða það, að hann á óvenjulega mikil ítök, meiri en nokkurt annað ljóðskáld hinnar yngri eða miðaldra kynslóðar, í hugum landa sinna vestan hafs, og munu því margir þeirra hafa hugsað hlýtt og þakklátlega til hans í tilefni af 50 ára afmælinu, þegar þeim varð kunnugt um það. Hin ljóðrænu, þjóðlegu og hugsana-auðugu kvæði hans hafa fundið næman hljómgrunn í brjóstum landa hans hérlendis, eigi síður en heima á ættjörðinni. Þar hefir þeim ómað "Íslands lag" fagurlega í eyrum, í mörgum tóntegundum og hljómbrigðum, samhliða hreimmiklum og spámannlegum vakningarorðum, klæddum í búning snildarlegs og oft stórbrotins skáldskapar.

Eigi verður hér rakinn æviferill Davíðs Stefánssonar, heldur aðeins leitast við að lýsa í stuttu máli megindráttum í fjölþættri bókmentastarfsemi hans og lífsskoðun hans eins og hún lýsir sér þar, sérstaklega í kvæðum hans.

I.

Eins og öðrum ljóðhneigðum ungum mönnum, er voru um eða innan við tvítugsaldur heima á Íslandi, þegar fyrstu kvæði Davíðs Stefánssonar birtust í tímaritinu *Iðunni* (1916), er mér enn í fersku minni, hversu sterkum tökum þau gripu mig, og fór mér þar sem öðrum jafnöldrum mínum eða þeim, er þá voru á líkum aldri (sambr. greinar þeirra H. K. Laxness og G. G. Hagalín). Það voru ekki neinir falskir tónar, sem hljómuðu frá hörpu hins nýja skálds í þessu fyrsta kvæði hans, "Mamma ætlar að sofna", í *Iðunni:*

Sestu hérna hjá mér,
systir mín góð.
Í kvöld skulum við vera
kyrrlát og hljóð.

Í kvöld skulum við vera
kyrrlát af því,
að mamma ætlar að reyna að sofna
rökkrinu í.

Mamma ætlar að sofna.
Mamma er svo þreytt.
— Og sumir eiga sorgir,
sem svefninn getur eytt.

Sumir eiga sorgir,
og sumir eiga þrá,
sem aðeins í draumheimum
uppfyllast má.

Í kvöld skulum við vera
kyrrlát og hljóð.
Mamma ætlar að sofna,
systir mín góð.

Og þetta kvæði hans, og önnur því lík, sem birtust í *Iðunni* og í fyrstu kvæðabók hans, *Svörtum fjöðrum* (1919), heilluðu eigi aðeins hugi örgeðja og hrifnæmra æskumanna og kvenna, sem venjulega eiga öðrum opnari hlustir fyrir slíkum röddum, heldur náðu þessi kvæði jafn greiðlega eyrum og athygli eldri kynslóðarinnar, fundu bergmál í sál hennar. Hér var að vísu slegið á nýjan streng í íslenskri ljóðagerð, en því töluðu þessi ljóð svo eftirminnilega til íslenskra hjartna, að þau voru í rauninni sprottin undan hjartarótum þjóðarinnar sjálfrar, áttu um anda,

blæ og málfar, rætur sínar að rekja til íslenskra þjóðkvæða, og efni þeirra eigi ósjaldan þjóðsagnalegs eðlis. En jafnframt var þar um nýsköpun að ræða frá skáldsins hendi, þó að hann stæði á gömlum merg bæði um efnisval og meðferð þess, og þessvegna gerðist hann með fyrstu ljóðum sínum brautryðjandi í íslenskum nútíðar-skáldskap og gætir áhrifa frá honum í verkum margra hinna yngri ljóðskálda.

Þjóðlegu hliðinni á skáldskap Davíðs og áhrifum þeim, sem hann varð fyrir í þá átt frá frændum sínum og í heimahúsum, er ágætlega lýst í eftirfarandi málsgreinum úr afmælisræðu Sigurðar skólameistara, er fyr getur, og ræðir hann einnig um þá hluti af miklum kunnugleika:

"Þær eru auðfundnar, sumar ræturnar, sem vinsældir Davíðs Stefánssonar spretta upp af. Þær eru líka eitt megin-einkenni ljóða hans og fleira þess, er eftir hann liggur. Hann knýr þjóðlega strengi, sem áður er vikið að, og öld fram af öld hafa fróað feðrum vorum og mæðrum, fornum frændum vorum og frændkonum. Þá er menn lesa fyrstu kvæði hans, finst þeim, að æskuheimili skáldsins hljóti að hafa verið fult af fjörgömlum ljúflingsmálum, sem sál barnsins og unglingsins hefir numið, nærst á og þroskast á, algerlega á sérstaka og sjálfstæða vísu. Vér minnumst þess, að safnandi og frelsandi þjóðsagna vorra, Jón Árnason, var langömmubróðir skáldsins, Ólafur Davíðsson móðurbróðir hans, sá, er Matthías kvað um þessi fögru vísuorð:

"Sál vors lands var sálin hans.
Þeirrar sálar sumardraumar
sungu mjúkt sem bláir straumar
ljóð vors lands".

Ef til vill verða sum fegurstu kvæði Davíðs Stefánssonar ekki betur auðkend en í þessum hugðnæmu bragyrðum. Móðir skáldsins, héraðskunn gáfukona, gerðarkona og höfðingskona, hefir geymt í minni sér ævintýr, þjóðsögur, þulur og viðlög. Hinn blíði blær viðlaga, vikivaka, dansa og þulna leikur enn og hefir jafnan mjög leikið um mörg ljóð skálds vors. Frændur hans söfnuðu og skrásettu, skáldið blés nýjum lífsanda, nýju sálrænu inntaki, nýjum varma í hin kynlegu fræði og hinar gömlu glæður, í dauða hjátrú og hindurvitni feðra vorra. Með fram þaðan er sprottið hið mikla ástfóstur, sem alþýða lands vors tók, sér til sæmdar og göfugrar nautnar, við fyrstu prentun kvæða hans. "Enn á streng vors hjarta hinn forni slagur", kvað Einar Benediktsson."

Réttilega hefir einnig verið á það bent af fleirum en einum, sem um kvæði Davíðs Stefánssonar hafa ritað, að hann hafi haldið áfram verki Jónasar Hallgrímssonar og annara fyrirrennara sinna í þá átt, að leysa íslenska ljóðagerð úr álögum dýrra og einstrengingslegra bragarhátta og skrúfaðs máls, og velja henni í þess stað búning létts forms og látlauss og eðlilegs máls, enda þó hann geti sjálfur leikið sér að dýrum háttum, þegar honum býður svo við að horfa. Jafnframt hefir hann sýnt það með ótal dæmum, hversu fjöl-strengjuð harpa íslenskt mál er, bæði að krafti og hrynjandi, í höndum andríks og

björg hafði heimili í Chicago gerði honum auðveldara með byrjun. Þessi samstiltu tildrög til þess er verða átti líkjast mjög þeirri forsjón sem svo oft virðist ráða fram úr í lífi manna. Að treysta henni einvörðungu getur verið fótakefli. Öðru máli er að gegna þegar einstaklings framtakið hagnýtir sér þau tækifæri, sem atvikin leggja til.

Nú byrjar mjög merkur og afgerandi þáttur í lífi Hjartar. Hjá honum var brennandi þrá eftir þekkingu, en sú tilsögn er hann hlaut náði lítið lengra en að kenna honum að lesa og veita undirstöðu í hinum almennu greinum barnaskólans. Séð hefi eg það staðhæft að hann hafi komist í sjöunda bekk barnaskólans. Mig minnir sterklega að hann segði mér sjálfur að hann hefði komist í fimta bekk og auk þess notið kvöldskóla einn vetur eins og þegar hefir verið vikið að. En hvort heldur er rétt, stendur það óhaggað að hann var eiginlega að öllu leyti sjálfmentaður. Ferill hans ber því vitni hve langt verður komist þegar hugur fylgir máli hjá efnismanni, þó tækifæri virðist lítil. Hvert brot af þekkingu féll hjá honum í góðan jarðveg og margfaldaðist. Það varð lykillinn að framför hans.

Hann átti líka það áræði er til þess þarf að ryðja sér braut og þá festu, er ekki lætur berast fyrir straumi. Um eða innanvið tvítugt tekur hann að öllu leyti að sjá fyrir sér sjálfur. Úrræði hans þá bera glöggan vott um upplag hans. Hann lætur ekki skjótan ávinning ráða vali, heldur hitt að geta fengist við það efni er hann hafði hug á. Hann réðist hjá manni er í smáum stíl smíðaði ýms rafáhöld. Kaupið var fjórir dollarar um vikuna. Hefir það verið knappur kostur í Chicago. En alt var með ráði gert. Tvo dollara á viku greiddi hann fyrir lélegt húsnæði og morgunverð. Annar dollar til varð að nægja fyrir aðrar máltíðir. Síðasti dollarinn var helgaður bókakaupum. Föt er hann átti urðu að endast þar til kauphækkun fengist, en það beið á annað ár. Það, sem gerði alt bærilegt, var að við atvinnuna var hann að læra stafrof þeirrar fræði er heillaði hann. Allar frístundir gengu til þess að kanna lengra leið þekkingarinnar eftir því sem föng voru á.

Næst ástundun og vakandi hug var sú tiltrú, er hann ávann sér hjá húsbændum sínum, meginatriði í því að greiða honum veg. Hann lét sér aldrei nægja að kasta höndum að neinu, heldur leysti hvert hlutverk, þó smátt væri, af hendi með nákvæmni og trúmensku. Þannig fór honum sjálfum stöðugt fram og það álit festist við hann að hann væri ábyggilegur og trúverðugur í einu og öllu. Sá bakhjarl er hann átti í arfgengu upplagi og heilbrigðu uppeldi reyndist honum haldgóður. Hagur hans fór batnandi svo að með nýtni og sparsemi tókst honum að leggja fyrir af kaupi sínu. Þegar hann hafði komist yfir fjögur hundruð dollara varð hann að leysa úr þeim vanda hvernig hann best gæti varið þeim sér til gagns. Það kom í huga hans að leita skólanáms, en hann féll frá því. Honum var svo tamt að fara eigin leiðir að hann hlaut að mestu að vera áfram sinn eigin kennari. Hann

tókst á hendur ferðalag um vestur fylki Bandaríkjanna og suður til Mexico. Hann þræddi engar venjulegar ferðamannaleiðir, en gaf sig að því nær eingöngu að athuga ríki náttúrunnar. Hið auðuga jurtaríki heillaði huga hans og leiddi hann lengra inn á svið grasafræðinnar. Hann tók ástfóstri við þá fræðigrein, sem hélst ætíð síðan. Þekking hans og áhugi í þessu efni mundu hafa skipað honum mjög framarlega á bekk meðal vísindamanna í grasafræði ef hann hefði kosið að verja lífi sínu aðallega á þeirri leið. Sem aukaatriði auðgaði það líf hans og jók á víðfeðmi vísindamensku hans. Öll náttúran var honum sem opin bók er hugðarmál hafði að geyma á hverri síðu. Sjálfsmentun þegar hún nýtur sín best verður sjaldan þröng. Á þessu einkennilega ferðalagi lifði hann í athugun náttúruaflanna og lét hina líðandi stund nægja án nákvæmrar fyrirhyggju. Hann teygði úr ævintýrinu alt sem auðið var og efni leyfðu. Þegar hann loks kom til baka til Chicago eftir tíu þúsund mílna ferðalag var hann búinn að vera matarlaus í tvo sólarhringa. En hann taldi ekki eftir slík óþægindi, því ferðin hafði verið honum til slíks unaðar og uppbyggingar. Varla er að efa að áhrif þessara fáu vikna voru honum jafnvægi ekki lítils skólanáms. Heimur hans var stærri og átti fleiri aðlaðandi úrlausnarefni. Hann var að þroskast á þann hátt sem honum sjálfum var eiginlegt.

Þegar til baka kom voru engin vandræði með atvinnu. Hann var kominn svo á rekspöl að honum stóðu opnar dyr hjá öðru aðal raffélagi borgarinnar. Þegar það seinna sameinaðist keppinaut sínum, hélt hann starfi innan hinnar nýju samsteypu. Margur hefir sint slíku starfi sem Hjörtur var að annast á þessum árum, og aldrei komist lengra. En með ákafri löngun að læra og skilja var ekki um neina kyrstöðu að ræða fyrir honum. Hann var að fást við hið dulda og töfrandi rafafl, sem var í uppgangi að sýna þá vaxandi möguleika er það bjó yfir. Honum nægði aldrei takmark, sem búið var að ná, heldur hafði hann sífelt hugann á því er framundan var. Hinn leitandi hugur hans gróf upp möguleika, sem öðrum voru huldir. Af óskiftum hug beitti hann sér við hugðarefni sín. Hann lifði í áhugamálum sínum og varði allri getu til að glöggva sér leið í sambandi við þau. Þannig liðu árin og lögðu grundvöll undir framtíðina.

Sterk sjálfstæðishneigð leiddi til þess að Hjörtur var ófús að vera í þjónustu annara lengur en ástæður frekast heimtu. Hann þráði að vera eigin húsbóndi og þræða eigin leiðir. Þegar hann tuttugu og sjö ára gamall er á ný búinn að safna smáupphæð af kaupi sínu, ræðst hann í það að reka starf á eigin býti. Hann sagði upp stöðunni hjá hinu mikla raffélagi, kvæntist og setti á stofn sitt eigið verkstæði. Það mun hafa veitt honum styrk, að kona hans hafði nokkur efni. Í smáum stíl var byrjað og baráttan var hörð áður en sigur fékst. Margur þrekminni maður mundi hafa gefist upp, því ástæðurnar voru ekki glæsilegar, en það var ekki hans hneigð. Erfiðleikarnir urðu til að stæla hann. Framan af fékst

hann aðallega við aðgerðir á raftækjum. Var það samskonar starf og hann hafði haft með höndum hjá stórfélaginu, Chicago Edison Company. — Efni sitt fékk hann gegnum innkaupsdeild þess félags og naut þar lánstrausts. Kom það sér ekki lítið vel meðan þröngt var í búi og var vottur um það traust er til hans var borið. Slíks drengskapar er ekki ætíð að vænta frá stórfélagi. En hann brást ekki tiltrú er honum var sýnd. Var það einn meginþáttur í sigurför hans. Einkum var það talsímafélag eitt er veitti honum feikna atvinnu eftir að hafa þaulreynt að hann var bæði fyllilega hæfur til starfsins og í hæsta máta trúverðugur. Gróði er skifti þúsundum dollara tók nú að falla í hans hlut og það virtist opin leið til efnalegs sjálfstæðis. En þá varð á skjót breyting. Félagið er aðal atvinnuna gaf, tók sjálft að annast þær aðgerðir er það þarfnaðist. Í bili virtist það tilfinnanlegur hnekkir, en varð tilefni til stórstígra framfara.

Starf hans fór nú að stefna inn á algerlega nýja leið. Frumleiki hans og óþreytandi alúð hans við nákvæmar vísindalegar rannsóknir tók að bera ávöxt. Hann gaf sig að því aðallega að gera nýjar uppfyndingar á sviði raffræðinnar og að koma þeim á framfæri í eigin verkstæði sínu. Merkur þáttur í starfi hans var fólginn í því að leggja háskólum landsins til tæki til tilrauna og kenslu í raffræði. Svo víðtækt varð þetta að tæpast er nokkur af fremri tilraunstöðvum við háskólana, sem ekki hefir einhverntíma notað áhöld Thordarsons við kenslu eða rannsóknir. Hann, sem að mestu hafði verið sinn eigin kennari, hafði best lag á því að leggja öðrum til útbúnað til að skýra og glöggva sig á rafmagninu og eðli þess. Þessi samvinna við háskólana varð honum eftir eigin vitnisburði til mikils þroska. Hann kyntist persónulega öllum helstu eðlisfræðingum landsins, starfi þeirra og stefnum. Þetta varð sem íkveikja í hans frumlegu sál. Telur hann það sína fullnaðar mentun, sem ekki verði ofmetin. En það kynti hann einnig þeim er líklegastir voru að meta yfirburði hans, og varð honum leið til frama. Fyrir heimssýninguna í St. Louis (1904) lét hann smíða eftir beiðni Purdue háskólans raftæki (million volt 25-cycle transformer) er var einstakt á þeirri tíð og vakti feikna athygli. Veittist honum gullmedalía fyrir. Eins fór á heimssýningunni í San Francisco (1915), og aftur veittist honum gullmedalía. Nú var hann búinn að ná svo takmarki að upp frá þessu er hann í fremstu röð sérfræðinga og uppfyndingamanna ekki aðeins í Bandaríkjunum heldur í öllum heimi. Fékk hann einkaleyfi á mesta fjölda af uppfyndingum í sambandi við raftæki á bílum og öðrum vélum og í sambandi við útvarpstæki. Einnig fékk hann einkaleyfi á vélum þeim er til þess þurfti að smíða uppfyndingar hans. Þannig varð hann stórhöldur á sviði iðnaðar. En þrátt fyrir alla þá umsetningu er til þess þurfti að standa straum af öllu þessu, átti hann sífelt hinn sama vakandi hug er seildist lengra en komið var. Fram að því síðasta var hann starfandi við ný og aftur ný viðfangsefni. Honum voru einlægt að opnast nýir heimar er hann þráði að kanna. Hann var

altaf ungur í anda og þekti ekki þá hneigð að vilja setjast að. Vísindaferill hans þó sjálfmentaður væri er slíkt ævintýri að yfir það mun ekki firnast.

Kunnur og frægur eins og Hjörtur Thordarson var sem raffræðingur, hvílir orðstír hans ekki einvörðugu á afreksverkum hans á því sviði. Hann varð víðkunnur einnig fyrir bókasafn sitt. Er það eitt hið allra merkasta prívat safn í allri Ameríku og þó víðar væri leitað. Hann byrjaði að safna bókum ungur, og safnið óx með honum. Það myndaðist ekki eftir fyrirfram ákvörðuðum reglum, heldur speglaði áhugamál eigandans. Hann varð fljótt glöggur á kjarnamikil rit, sem svöruðu hans hugsunarhætti og þörfum. Hann hafði tekið í arf sögulega hneigð íslenskra fræðimanna og hafði sterkan hug á því að að þræða samhengi í þroskasögu vísindanna og í viðfangsefnum mannanna yfirleitt. Saga mannlegrar hugsunar fremur en atburða var honum hin raunverulega saga mannkynsins. Hann fékst við hin nýjustu vísindi og lagði skerf til að auka þau, en var fjarri þeim þrönga hugsunarhætti er metur lítils leiðina, sem þegar er farin. Hann var framsækinn nútíma vísindamaður, sem einnig átti glögt innsæi í menningu og sögu hins liðna. Slíkt jafnvægi er óvíða gagnlegra en í vali á bókum. Leiðarþráður safnsins er hin skarpgreinilega dómgreind og smekkur er þar birtist.

Framaf safnaði hann einkum íslenskum bókum og bókum um íslensk efni. Þar með fylgdu bækur er áhrærðu hið útflutta þjóðarbrot í Ameríku. Mun safn hans vera hið þriðja í röðinni á þessu sviði í allri Ameríku. Fiske safnið við Cornell háskólann og Widener bókasafnið við Harvard háskólann eru þar fremri. Áhugi Hjartar á þjóðlegum fræðum íslenskum hélst ævina á enda. En víðfeðmi áhugamála hans hlaut að marka honum stærra svið. Viðfangsefni hans í náttúruvísindunum náðu vaxandi haldi á honum. Varð það eðlilega ráðandi atriði í vali hans á bókum. Hann var sjálfur að þreifa sig áfram í vísindalegum rannsóknum, en var samhliða heillaður af því að þræða leið mannlegrar hugsunar og þroska í því liðna. Þetta varð takmarkið hvað náttúruvísindin snerti innan vébanda hins enskumælandi heims. Í safninu blasa við velþræddar leiðir þroska þeirra frá frumstigi sínu. Hann átti í ríkum mæli það glöggsæi er til þess þurfti að velja þau rit er einkum varða leið framþróunar í hverri grein. Jarðyrkja og grasafræði eiga þar ríkan hlut að máli, heilsufræðin einnig, einkum er snertir þjónustu jurtanna í þarfir læknislistarinnar. Safnið hefir að geyma mörg hin fágætustu og merkilegustu rit um þessi efni. Raunsæis vísindin eru ekki eins nákvæmlega rakin, en skipa þó stóra deild. Eðlilega verða raffræðin og eðlisfræðin ekki útundan. Eg minnist þess hve mjög hann lagði sig eftir að ná í það er ritað hefir verið á íslensku í þeim greinum, einkum til þess að geta eignast orðaval í þeim efnum á móðurmálinu. Fleiri hundruð bindi þræða viðleitni efnafræðinnar að breyta einu efni í annað, einkum í gull (alkemi). Er það á landamærum hjátrúar og vísinda, sem ekki eru ætíð

glögg. Hugboð alkemistans eru að rætast í viðleitni vísindanna. — Þá er safnið auðugt af hinum fágætustu bókum er hafa að geyma vísindalega uppdrætti og myndir. Sérstaklega snertir það tréskurðarmyndir frá fimtándu til seytjándu aldar. Er þar um kostbæran fjársjóð að ræða. Sama gildir um merkustu rit fuglafræðinnar með myndum. Hliðarlegg þessara fræða er að finna í nálægt þrjátíu bindum er fjalla um list þá er birtist í skjaldarmerkjum, sérstaklega þeim er sækja fyrirmyndir í ríki náttúrunnar. — Auk þessa er þar að finna hyrningarsteina sígildra bókmenta á sviði fagurfræði og heimspeki. Viska og innsæi hins liðna er í glöggu uppáhaldi til að þræða leið þekkingar og skilnings til áframhalds.

Safnið er í sjálfu sér fádæma verðmætt, en hefir líka ákvarðandi gildi í því að lýsa þeim er safnaði. Bækurnar söfnuðust að honum til að svara þrá og hugarstefnu. Þó yfir 25,000 bindi séu í safninu, var Hjörtur þeim nákunnugur. Einungis sá er komist hafði yfir mikil efni gat haft ráð á því að verja svo miklu til bókakaupa, en fyrir honum var það smekkur og þörf sem réði framyfir kaupgetu. Hann las af áfergju og eftirtekt með sjaldgæfri þrautseigju. — Stálminni hans kom sér vel í því að hafa reiðu á safninu og efni þess. Hið sama innsæi og lýsti honum á sviði hinna gagnrænu vísinda, kom einnig til greina í vali og mati á bókum. Auðugt eins og safn hans er, hefir það að sjálfsögðu sín takmörk, en það er alls ekki borg um hleypidóma eigandans. Það speglar lífsskoðun hans á margan hátt, trú hans á lífinu og gildi þess og virðingu hans fyrir mannlegri viðleitni. Það er sjaldgæft að vera sjálfmentaður stórhöldur í iðnaði, en hafa um leið slíkan unað af bókum og slíkan skilning á samhengi lífsins. Það ber því vitni að fjársöfnun ein hefir ekki vakað fyrir. Önnur verðmæti eru tekin til greina. Hann gerði sér líka ant um verkamenn sína. Þessi ummæli eru eftir honum höfð: "Við greiðum hæstu verkalaun sem reksturinn þolir og reynum að umgangast svo hver annan að ánægja megi fylgja." Mannúð, skilningur á þörfum annara og kyrlát samúð með öðrum einkendu þennan hógværa fræði- og vísindamann. Hann taldi sig ekki trúmann, en oft fór hann með þetta erindi úr "Scholemaster" eftir Roger Ascham (1570) — bók sem hann átti og mat. Það eru ummæli um látinn vin.

"His life he ledde, Christ's lore to
learne,
With will to work the same;
He raede to knowe, and knew to live
And lived to praise his name."

Fáorður eins og hann var um slík efni, talaði það eflaust til hans að læra til að lifa.

Óhlutdrægt mat á þessum einstaka manni er að finna í ummælum amerísks kennara og vísindamanns, sem kyntist honum um all-langt skeið. Það er dr. Henry Crew, doktor í heimspeki og lengi kennari í eðlisfræði. Hann hefir nú látið af starfi. Honum farast þannig orð og ummæli hans eru birt með hans samþykki (í lausri þýðingu):

"Eg get einungis sagt að í viðkynn-

ingu er náði yfir meir en tvo tugi ára sýndi hr. Thordarson sig mann með sjaldgæfum meðfæddum hæfileikum, lausan við alla tilgerð og yfirskyn. Kynni hans á eigin hönd af eiginleikum efnisins og hugboð hans um háttalag rafstrauma og sviða segulmagnsins er hann öðlaðist án nokkurs liðs frá hærri stærðfræði, minna á hinn mikla Faraday (Michael Faraday 1791-1867). Smekkur hans og hneigð til náttúruvísinda og eðlisfræði var með afbrigðum. Að þræða sögu þessara vísinda var honum ríkjandi ástríða alt til dauða. Hugur hans á þessu leiddi til myndunar hins stóra og kostbæra safns sjaldgæfra enskra bóka um grasafræði, eðlisfræði og önnur grundvallaratriði. Hve kunnur hann var efni þessara bóka var furðanlegt. Að skipa þessum glæsilegu bindum á hylluna án þess fyrst að kynnast efni þeirra, hefði í huga hr. Thordarson verið ófyrirgefanlegt fals."

Á seinni árum hlaut Hjörtur margföld heiðursmerki og viðurkenningu bæði hérlendis og annarstaðar frá. Einnig frá Íslandi. Full grein hefir verið fyrir þessu gerð í því er um hann hefir verið ritað, og verður ekki hér endurtekið. Slíkt er makleg viðurkenning, en eykur ekki á hæð hans.

Það mega allir vel við una að ekkja Hjartar, Júlíana, og synir hans Dewey og Tryggvi munu sjá svo um að hið merka bókasafn hans varðveitist sem heild og beri nafn hans. Verður það að líkindum eign merks háskóla.

---

## Hrafl

Eftir Ragnar Stefánsson

Fyrr var æskan auðmjúk
en ellin hnakka kert —
því ellin alein vissi
alt, sem var nokkursvert.

En árin hafa liðið,
og alt er orðið breytt —
nú veit æskan alla hluti'
en ellin ekki neitt.

Að skapadóms-lögum
þar skilja djúpin breið —
svo æskan og ellin
fóru aldrei sömu leið.

Því örgeðja æskan
unir sínum hag
við ábyrgðarleysi
dagsins í dag.

En ellin þokast ávalt
æskunni fjær —
og starir á það
sem að gerðist í gær.

# Á ferð og flugi

Eftir séra Valdimar J. Eylands

---

Seint í ágústmánuði 1944 barst Gretti Jóhannsson, ræðismanni í Winnipeg símskeyti frá dr. Helga P. Briem, aðalræðismanni Íslands í New York, þess efnis að honum sjálfum, ásamt Einari P. Johnson, ritstjóra Lögbergs; Stefáni Einarsson, ritstjóra Heimskringlu; Hannesi Pétursson, fasteignasala, og mér, væri boðið af ríkisstjórn Íslands til fundar við herra Svein Björnsson, forseta Íslands, sem þá var væntanlegur til New York, eftir að hafa setið gestaboð hjá Roosevelt, hinum mikla þjóðhöfðingja Bandaríkjanna, og heims málaleiðtoga í Hvíta húsinu í Washington. Þetta var okkur öllum óvænt frétt, en vitanlega hið mesta gleðiefni og sæmd. En þar sem eg er maður sem á marga húsbændur, gat eg fyrir mitt leyti ekki tekið boðinu strax. Fyrst þurfti eg að ráðfæra mig við safnaðarnefnd mína í Fyrsta lúterska söfnuði, og ráðstafa messugjörðum og öðrum verkum sem til kynnu að falla í söfnuðinum í fjarveru minni, og auðvitað þurfti eg að fá samþykki konunnar minnar til að hleypa mér í slíkan soll sem talið er að finna megi í hinni miklu heimsborg. En hvorutveggja leyfið var auðfengið; safnaðarnefnd mín gaf fúslega samþykki sitt, og konan áleit að mér myndi óhætt og var ferðarinnar fýsandi.

Er ferðin hafði verið ákveðin var fyrsta viðfangsefnið að fá ferðaleyfi, peninga til ferðarinnar, og svo farskjóta. Gekk alt vel með peningana og leyfið. En um farkostinn var nokkur efi um stund. Eftir nokkra viðleitni tókst þó að fá þrjú sæti í Trans-Canada flugvél, á miðvikudagsmorguninn 23. ágúst. Slóum við þrír félagar, Hannes, Grettir og eg því þá föstu, að taka þetta tækifæri og bjuggumst við til ferðar. Ritstjórarnir, sem þá voru eins og venjulega bundnir að koma út blöðum sínum, lögðu af stað nokkru síðar, og ferðuðust með járnbrautarlest.

Við þremenningarnir lögðum af stað í indælu veðri klukkan hálf þrjú um morguninn. Eg hafði aldrei flogið. Skal eg ekki neita, að þótt eg sé kominn af unglingsárunum, var eg talsvert spentur síðustu klukkutímana sem eg sat heima og beið eftir bílnum, sem átti að taka mig út á flugvöllinn. Það var ekki til að hugsa um svefn, svo eg fór að reyna að semja ræðu. En það reyndist líka ógerningur, svo eg sat og beið. En svo kom bíllinn von bráðar og í honum voru ferðafélagar mínir. Biðin á flugvellinum var örstutt, og eftir að búið var að vigta farangur okkar, fórum við upp í flugskipið, sem brátt var fullsetið. Þegar allir voru komnir inn, kom einhver með lykil, og læsti hurðinni utan frá. Þetta fanst mér einkennilegt en skildi síðar, að þetta er nauðsynleg varúðarregla. Einhverjum kynni að detta í hug á fluginu, að fara út á hlað til að fá sér frískt loft, og myndi þá finnast það

hart, að hafa ekki jörð til að standa á! Var nú öllum skipað að spenna sig megingjörðum sem voru áfastar sætunum. Tveir ungir menn sátu í stýrishúsinu; fóru þeir sér í engu óðslega, en báru í öllum viðburðum vott um greind og gætni. Ekki veit eg hvort fleiri voru þarna sem eins og eg, voru að leggja af stað í sína fyrstu flugferð, en það eitt er víst, að enginn bar nein hræðslumerki. Við vorum öll í sama bátnum, og samfélagið gaf okkur öryggiskend.

Gammurinn lyfti sér nú til flugs eftir stuttan en snarpan sprett á vellinum, og sveiflaði sér áður en varði yfir borgina. Þá blasti við dásamleg sýn, sem eg gleymi aldrei, Winnipegborg í allri sinni ljósadýrð. Fékk eg þá nýjan skilning á legu borgarinnar og víðáttu. Aðlastræti (Main Street) og Portage Avenue láu eins og slagæðar gegn um borgina, með ótal smærri greinar í allar áttir, eins og óreglulegt taugakerfi. Skamt fyrir norðan Winnipeg mátti sjá ljósin í Selkirk, og enn lengra norður tindruðu vitaljósin á Gimli, bæði á höfninni og flugvellinum fyrir vestan bæinn. Ljósin þar norðurfrá voru það seinasta sem eg sá af Manitoba í það sinn, einskonar vinarkveðja að skilnaði. Þótti mér vænt um að sjá ljósin á þessum slóðum, því fjölskylda mín dvaldi þá þar norðurfrá. Gerði eg mér í hugarlund að þetta ljósatindur væri kveðja frá þeim, með ósk um góða ferð.

Nú var ekki mikill tími eða tækifæri til athugunar. Ferðafélagar mínir höguðu sér mjög hversdagslega, hjúfruðu sig niður í sæti sín og breiddu yfir sig ábreiður. Mér varð samt ekki svefnsamt þá eða síðar um nóttina. Stóð eg um stund frammi í dyrum stýrishússins og talaði við kapteininn. Heldur urðu nú samræðurnar tregar samt; mér gekk jafnvel illa að heyra sjálfan mig fyrir mögnuðum dyn vélanna sem þeyttu okkur gegn um geiminn. Mér varð litið niður fyrir mig öðru hvoru og sá þá einkennilega hrjóstrugt landslag, hraun og klappir með óteljandi smávötnum á milli, sem spegluðu sig einkennilega í tunglsljósinu. Eg hafði orð á því við kapteininn að erfitt myndi að lenda í slíku landslagi, ef á lægi. Taldi hann það hættulaust, því jafnvel þótt vélarnar stönsuðu, gætu þeir svifið úr þeirri hæð sem flogið var á, á næsta flugvöll, en þá taldi hann vera með fimtíu mílna millibili alla leiðina. Bar nú lengi ekkert til tíðinda. Farþegarnir virtust allir í fasta svefni, en eg sat og hugsaði um þetta einkennilega ævintýri. Dagur rann fyr en varði. Sólaruppkoman var dýrðleg, en landslagið enn hrjóstrugt er birta tók. En svo tók brátt fyrir alla landsýn. Skipið flaug nú ofar skýjunum, sást nú ekkert nema einkennilega blátær himininn fyrir ofan, og hvít breiða fyrir neðan. Eg hefi aldrei á ævinni séð neitt jafn mjallahvítt. Ef mér væri borgað fyrir að auglýsa sápu, myndi eg líklega segja að skýin hafi verið eins hvít eins og sápufroða af vissri tegund ofan á þvottabala, eða eins og samfeld breiða af hvítþveginni fyrsta flokks ull. En samt er sú samlíking ófullnægjandi, eins og allar samlíkingar eru jafnan, því að skýin tóku á sig ýmsar kynjamyndir út við sjóndeildarhringinn. Sumir flókarnir sem svifu yfir breiðunni voru líkir skipum í lögun, aðrir



mintu á kastala og hamraborgir. Eftir langan sprett ofar skýjunum, steypti skipið sér ofan í gegn um þessa hvítu móðu, og þá blasti við yndislegt land fyrir neðan. C. N. R. járnbrautin sem við höfðum fylgt alla leiðina, lá nú eins og örmjór tvöfaldur silfurþráður fyrir neðan okkur. Bændabýli og akrar blöstu við. Alt virtist þetta undursamlega smávaxið í fjarlægðinni; skógurinn eins og örlitlar grænar nálar; akrarnir eins og reitir á taflborði, og húsin eins og brúðuhús sem börn raða á palli.

Klukkan rúmlega sex um morguninn lentum við í Porques, Ontario. Morgungolan var svöl og hressandi að koma út. Voru nú gasgeymar vélarinnar fyltir, og aftur haldið af stað eftir tíu mínútna viðstöðu. Klukkan hálf tíu um morguninn flugum við yfir Lake Simcoe í Ontario; var flughæðin þá 7,500 fet, en hraðinn 200 mílur á klukkustund. Var þá eftir um 35 mínútna flug til Toronto, en þar lentum við kl. tæplega níu eftir Winnipeg tíma. Var þar skift um flugvél, og svo haldið af stað til New York. Er sú vegalengd 365 mílur, og tók sú ferð okkur tæpa tvo tíma.

Áður en varði vorum við komnir yfir útjaðra New York-borgar. Gekk mér í fyrstu hálf illa að átta mig á því, að við værum komnir alla leið. En það var ekki um að villast. Landslagið sagði til sín. Þarna lá Long Island til vinstri og teygði sig eins og stórhveli sem snýr hausnum að landi; beint fyrir neðan okkur er Manhattan eyjan, nokkurnveginn í laginu eins og totumjór íleppur, með Hudson ána annars vegar. Skýjakljúfarnir rísa upp á móti okkur; var nú flogið svo lágt að manni fanst maður geta tekið í trjónurnar á þeim og teymt þá með sér. Hér varð eg var við það í fyrsta sinn að flugvélin tók að hoppa og skoppa, og hendast til, eins og bifreið sem hratt er keyrð á óséttum vegi. Loftstraumarnir voru þarna augsýnilega sterkir þar sem úthafsgolan mætir hitastraumnum af

meginlandinu. En það leið ekki á löngu að við lentum. Við höfðum flogið í tíu klukkutíma; og á þeim tíma ferðast 1500 enskar mílur. Flugvélin settist eins og svanur á tjörn, á flugvöllinn í New York. Í Winnipeg var klukkan þá nákvæmlega tólf á hádegi.

Við tókum okkur leigubíl og fórum rakleitt upp á skrifstofu Dr. Helga P. Briem, ræðismanns. Hann hafði ekki átt okkar von svo skjótt, og var ekki viðstaddur; en skrifari hans, ungfrú Ásta Helgadóttir tók á móti okkur með hinni mestu alúð, og lét þess getið að okkur væri búinn verustaður á Hotel Savoy Plaza. Það var þá heldur ekki í kot vísað, því þetta er talið annað veglegasta gestgjafahús borgarinnar. Okkur var fengin stór og vegleg íbúð á 22. gólfi. Þar voru stórir gluggar, víðsýnt yfir borgina og fagurt um að litast, það sem fyrst vakti athygli mína var gosbrunnur einn fagur fyrir framan gistihúsið, og fyrir handan strætið var lystigarðurinn Central Park. Eru þarna 850 ekrur af skóglendi, vötnum og blómagörðum inn í sjálfu hjarta borgarinnar. Hlýtur það að vera dásamlega tilbreytilegt og hressandi fyrir þreytta og sveitta borgarbúa að geta farið af hinum heitu steinsteyptu strætum öðru hvoru og horfið inn í skraut náttúrunnar um stund. Heyrði eg talað um að ýms gróðafélög hefðu á ýmsum tímum lagt hart að borgarstjórninni að fá keyptar sneiðar af þessu dýrmæta landi. En hún hefir að þessu neitað að verða við slíkum tilmælum, og hlýtur það að teljast viturlega ráðið.

Enda þótt ferðin austur væri að vissu leyti eins og draumur hvað snertir hraða og þægindi, vorum við félagar nokkuð lúnir og svefnþurfi, og höfðumst því ekki mikið að, það sem eftir var þess fyrsta dags í New York, annað en að sjá okkur um í nágrenni við hótelið. Morguninn eftir var það fyrsta verk okkar Grettis að heimsækja The United Lutheran Church House, 231 Madison Avenue, sem nú er aðal bækistöð United Lutheran Church in America. Er þetta gríðarleg steinbygging með fjórum hæðum og 45 herbergjum; þar sem öll herbergi og gangar eru lagðir þykkum rauðleitum gólfdúkum út að veggjum. Var þetta áður einkaheimili auðkýfingsins J. P. Morgan, og er virt að fasteignamati á $950,000.00. Vegna hárra skatta treystist enginn af hinum auðugu New York búum að taka höll þessa til íbúðar, en heldur en að jafna hana við jörðu var hún seld kirkjunni fyrir lítið eitt meira en nam verði lóðarinnar sem hún stendur á. Til dæmis um auðlegð hinna upphaflegu eigenda, og íburð þann sem lagður var í bygging þessa húss, má geta þess að í einni stofunni, í kring um ljósastjaka sem hékk í loftinu, var geysistórt málverk með englamyndum. Sagði leiðsögumaður okkar að þetta málverk hefði fagmaður frá Ítalíu málað í loftið, og hefði það kostað húsráðendur einhversstaðar á milli 17 og 29 þúsund dollara. Þessi stofa var áður svefnherbergi frúarinnar, Mrs. Morgan, og hafði hún lagt svo fyrir, að ekki skyldi hreyft við þessari mynd á meðan húsið stæði. Út um gluggann á skrifstofu forseta United Lutheran Church getur að líta hið fræga Morgan Library,

hinumegin við litla grasflöt sem aðskilur húsin. Hús þetta hefir að geyma mjög verðmætt safn fágætra bóka og handrita. Þar er Gutenberg biblía, prentuð árið 1456, og fyrsta eintak af Gamla Testamentinu á hebresku, prentað 1488. Þar eru einnig skræður og leirtöflur frá Babylon og Egyptalandi, ljósmynduð handrit frá miðöldunum og safn af hinum frægu málverkum Rembrandts, hins mikla snillings. Hingað safnast námsfólk frá öllum löndum heims til rannsókna og náms. En við Winnipeg menn erum aðeins dægurflugur hér; tíminn er naumur og margt að sjá. Við kveðjum leiðsögumanninn og förum heim í okkar eigin höll, Savoy Plaza.

Um kvöldið skeði það, sem í Winnipeg og víðar í bygðum Íslendinga hefði þótt einkennilegt fyrirbrigði. Hannes Péturson sem þá var forseti Sambandskirkjufélagsins bauð mér, presti Fyrsta lúterska safnaðar í Winnipeg, á bíó, og eg þáði boðið með þökkum! Þar sem enginn þekkir mann, þar er gott að vera! Leikhúsið var ekki nein smákompa; mér var sagt að þetta væri stærsta leikhús veraldarinnar. Ekkert skal eg samt fullyrða um það, hefi enga þekkingu á þeim hlutum til að gera þar samanburð, en hitt er víst að þetta leikhús — Roxy Theatre heitir það, er geysistórt, tekur 6.900 manns í sæti. Urðum við að klifra upp fjölda stiga, áður en við komum upp á hæð, þar sem við loksins gátum fundið sæti. Virtist þá leiktjaldið vera hér um bil beint fyrir neðan okkur. Í fyrstu fanst okkur þetta óþægilegt, en við vöndumst því skjótt, gleymdum því reyndar nærri samstundis, því myndin sem við sáum var svo falleg og fróðleg. Þetta var ævisaga Wilson's fyrrum Bandaríkjaforseta, í fullum litum. Hafði hún nú verið sýnd á fjórðu viku frá kl. 9 á morgnana til kl. 12 á kvöldin, en samt var nærri ómögulegt að fá sæti. Það er augljóst af ýmsum ummerkjum nú, að þótt Wilson væri misskilinn á sinni tíð, og þjóðabandalags hugsjón hans hafnað af þingi Bandaríkjanna, þá sjá menn nú ævi hans og viðleitni í nýju ljósi, og finna í hugsjón hans hina einu mögulegu leið til að skapa frið á jörðu. Þá jók það ekki lítið á ánægju okkar að sjá í fréttaþætti sýningarinnar myndir frá lýðveldisstofnuninni á Íslandi. Þar sáum við tvo helstu menn þjóðarinnar þar sem þeir gengu á Þingvelli hlið við hlið, forseta Íslands, þá nýkjörinn til þess embættis, herra Svein Björnsson, og biskup Íslands, herra Sigurgeir Sigurðsson, í fullum embættisskrúða. Við vorum stoltir af þessum höfðinglegu mönnum, og tókum óspart þátt í lófaklappinu, sem þeim var fagnað með. Biskupinn þektum við báðir persónulega frá því er hann sótti okkur heim hér í Winnipeg, á tuttugu og fimm ára afmæli Þjóðræknisfélagsins. Forsetanum áttum við eftir að kynnast næstu daga, til þess vorum við einmitt hingað komnir.

Næstu dögum vörðum við til heimsókna hjá vinum og ættingjum, og til að sjá merka sögustaði og söfn. Hver okkar valdi þá staði sem stóðu huga hans næst. Frænka konu minnar, Mrs. Laurel Thompson, sem heima á í Rockville Centre, og maður hennar Norman, sýndu mér þá miklu vin-

semd að taka mig í bíl sínum víðsvegar um borgina til að sýna mér merkar kirkjur og skóla. Heimsóttum við Cornell University, þar sem talið er að tíu þúsund nemendur stundi nám árlega; og einnig þrjár helstu kirkjur borgarinnar: The Cathedral of St. John, the Divine; Riverside Church, sem Dr. Harry Emerson Fosdick hefir gert víðfræga, og svo gömlu Trinity kirkjuna, elstu kirkju borgarinnar sem að sögn var bygð 1696. Í grafreit þeirrar kirkju, en hún stendur í honum miðjum eins og siður var á Íslandi í gamla daga, má enn sjá á legsteinum nöfn ýmsra manna sem mjög komu við sögu Bandaríkjanna fyr á tímum. Þar hvílir Alexander Hamilton, fyrsti fjármálaráðherra Bandaríkjanna í ráðuneyti Washingtons. Hann háði einvígi við Aron Burr, sem þá var vara-forseti Bandaríkjanna, og beið bana í þeirri viðureign, þá aðeins 47 ára gamall. Þar sá eg einnig gröf Roberts Fulton, þess sem bygði fyrsta gufuskipið. Myndir fortíðarinnar rísa hér upp hver af annari, og tala til vegfarandans um hreysti og hetjuhug, en einnig um mannlegan breyskleika sem einkendi marga þá framsýnu leiðtoga sem grundvöllinn lögðu að hinu volduga lýðveldi Bandaríkjanna í Ameríku.

Ritstjórar íslensku vikublaðanna í Winnipeg, sem báðir voru með í för þessari, eins og fyr var getið hafa báðir sagt nákvæmlega frá komu forseta Íslands til New York, 27. ágúst 1944, viðtökunum á flugvellinum þegar hann kom frá Washington með föruneyti sínu, viðtökum borgarstjóra New York borgar, ræðu forsetans við það tækifæri, veislu þeirri sem honum var haldin á Waldorf-Astoria hótelinu, og öðrum mannfagnaði í því sambandi. Skal eg því ekki endurtaka neitt af því hér. Læt eg nægja að segja hér, að viðtökurnar og veisluhöldin undir stjórn Dr. Helga P. Briem, fóru fram með hinni mestu prýði, og verður það alt okkur sem þar vorum staddir ógleymanleg reynsla sem við munum lifa upp aftur og aftur í endurminningunum. Það var ánægjulegt að sjá fána hins unga íslenska lýðveldis blakta við hliðina á fána Bandaríkjanna á ýmsum opinberum byggingum hinnar miklu heimsborgar; ekki var það síður hrífandi að heyra stóra hljómsveit fyrir framan borgarstjórahöllina í New York spila þjóðsöng Íslands, "Ó guð vors lands". Það var og ánægjulegt að lesa vingjarnleg ummæli stórborgarblaðanna um Ísland, forseta þess og utanríkisráðherra. En mesta ánægjuefnið var það þó fyrir okkur að fá að sjá og heyra sjálfan forseta Íslands, hinn látlausa, hógværa mann, kjörson hins unga lýðveldis og fyrsta forseta þess. Við fáum seint fullþakkað stjórn Íslands fyrir að hún gerði okkur þessa ferð mögulega. Okkur ætti þá ekki heldur að gleymast, að við vorum ekki kvaddir til þessarar ferðar fyrst og fremst vegna okkar sjálfra, heldur vorum við boðnir sem einskonar fulltrúar og staðgöngumenn annara Íslendinga í Canada. Íslendingum í ýmsum borgum í Bandaríkjunum hafði einnig verið boðið á sama hátt og okkur. Þaðan voru mættir þeir dr. Richard Beck, forseti Þjóðræknisfélagsins; dr. Guðmundur Grímsson, dómari; Svein-

björn Johnson, lögfræðingur; Gunnar B. Björnsson ritstjóri, og dr. Árni Helgason, ræðismaður; dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, og prófessorarnir dr. Stefán Einarsson, og Halldór Hermannsson. Ísland gat ekki boðið öllum sem því unna í Ameríku að koma á fund forseta síns í New York til að taka í hönd hans og kynnast honum. Þessvegna var þessum gestum boðið úr báðum löndunum, að við mættum þrýsta hönd hans, einnig vegna hinna sem ekki gátu komið. Og þegar við kvöddum forsetann á burtfarardegi hans frá New York, og óskuðum honum og heimaþjóðinni allrar hamingju og blessunar í framtíðinni, þá gerðum við það í nafni allra Íslendinga sem dvelja hér á vesturvegum. Hið síðasta orð forsetans til okkar var: Berið þið kveðjur frá Íslandi til allra sona þess og dætra sem þið náið til! Við snerum heim á leið, og hugsuðum víst allir um hið sama, íslensku þjóðina í nútíð og framtíð —

"Drjúpi' hana blessun Drottins á,
um daga heimsins alla."

# Enskar bækur um íslensk málefni

**Icelandic: Grammar, Texts, Glossary,** eftir prófessor Stefán Einarsson. Þessi stóra og ágæta kenslubók í íslensku kom út á árinu sem leið, og er fullar 500 bls. að stærð. Hún er fyrst og fremst fyrir enskumælandi íslensku-nemendur, en ætti jafnframt að vera happafengur fyrir hina yngri kynslóð Vestur-Íslendinga. Fyrst er málfræðin með nákvæmum framburðar táknum. Þá koma leskaflar af ýmsu tæi með skýringum og síðast orðasafn, sem tekur víst yfir flest þau orð, sem í lesköflunum standa. Ritun þessarar bókar er hið mesta þrekvirki, og frágangur allur er útgefendunum til hins mesta sóma; má meðal þess geta, að hún er skreytt allmörgum myndum, sem ótítt mun vera um málfræðis kenslubækur.

★

**Iceland and the Icelanders,** eftir Dr. Helga P. Briem, aðalræðismann Íslands í New York, með litmyndum eftir Vigfús Sigurgeirsson, ljósmyndara. — Þetta er langsamlega sú fallegasta og ánægjulegasta landkynningarbók, sem komið hefir, um Ísland. Myndirnar eru hver annari fallegri og girnilegri, og lesmálið gefur skemtilegri og samanþjappaðri upplýsingar um land og þjóð, en hægt væri að hugsa sér að kæmist fyrir á jafn fáum blaðsíðum. Er leitt til þess að vita, að upplagið skyldi alt hverfa í þá átt, sem minst var þörfin á. En vonandi rýmkar svo til um pappírsleyfi, að hægt verði að bæta úr því með öðru stærra upplagi.

★

**Iceland's Thousand Years.** — Þetta eru fyrirlestrar þeir, er fluttir voru síðastliðið ár af nokkrum merkum félagsmönnum og konum Þjóðræknisfélagsins og sambandsfélags þess, The Icelandic Canadian Club, og gefnir út á kostnað og að tilhlutun beggja félaganna. Eru þeir vitanlega ætlaðir þeim lesendum, sem kynnast vilja Íslandi, sögu þess og bókmentum, en ekki lesa eða skilja íslensku. Fyrirlestrarnir eru skemtilegir aflestrar og mjög í anda hinna styttri nútíðar fræðslu rita, og víst áreiðanlegir eins langt og þeir ná. Þetta er fremur snyrtilegt kver og skreytt allmörgum myndum. Prentvillur eru þar nokkrar, og má víst telja undir þær, að höfundur **Melablóma** og **Jökulrósa** er nefndur Magnús Hjaltason, en hét réttu nafni Guðmundur, enda er hann svo nefndur á öðrum stað í sama fyrirlestri. Þessi bók þyrfti að vera prentuð í stærra upplagi svo hún fengi meiri útbreiðslu.

# Sárfættir menn

Eftir Guðrúnu H. Finnsdóttur

---

Arnold Gunther hafði vaknað upp við vondan draum í morgun og aldrei þessa vant, var hann sjálfum sér gramur. Hann hafði steingleymt því í gærkvöldi að skrifa greinina fyrir blaðið og það hafði hann þó verið búinn að einsetja sér að gera, því greininni hafði hann lofað að koma til blaðsins í kvöld. Hann var í þungu skapi yfir þessu, því andinn var ekki yfir honum í dag. Hugur hans var dofinn og dauður og tungan stöm. Hann var svo þunglega haldinn af andleysi, að ekkert af öllum þessum meistarverkum mannanna gat hlýjað honum svo um hjartaræturnar að hugur hans gæti losnað úr þessum læðingi, flogið á vængjum ímyndunaraflsins og talað tungum.

Í gær hafði hann verið skáld, hugur hans logað af hrifning og máttur orðsins legið honum á tungu. Heitur og þreyttur hafði hann farið inn í veitingaskála í gærkvöldi, til þess að fá sér glas af öli, því síðan vínbanninu var lyft, gátu menn fengið sér drykk án þess að teljast með glæpamönnum. Fleiri blaðamenn komu svo þarna inn og þeir höfðu setið að sumbli og samræðum um stund.

Hann hafði tekið upp á þeim fjanda að halda ræðu yfir þeim. Honum var vel kunnugt um, að þeir álitu hann afdankaðan drykkjuslána, ekki þess verðan að vera í þeirra félagsskap. Sú vitund hafði kveikt í honum. Hann hafði verið drukkinn af sigurgleði yfir því, að finna sig færan um, að bregða upp leiftrandi myndum af sýningunni með almætti orðsins, og sýna þeim í tvo heimana þegar til þess kæmi, að nota þá list. Á hrynjandi litauðugu máli, hafði hann lýst hinum stórkostlegu og stílfögru höllum og þeim töfrum vísinda og tækni er þar var til sýnis. Framþróun heillar aldar, hafði hann hrópað. Regnbogaliti sýningarhallanna og litróf syngjandi gosbrunna óf hann ljósi og skuggum ótal litbrigða. Hann hafði þanið sig yfir alt í þessari ræðu sinni. Tungan í honum hafði ekki legið á liði sínu. Hann hafði haft ósegjanlegt yndi af því, að lofa þessum sauðhlýðnu, lúsiðnu blaðasnápum, sem þarna voru staddir, að heyra hvernig hann gat sagt frá, þegar hann vildi svo við hafa og væri frjáls orða sinna.

Þessum fréttasmölum var öllum kunnugt um, að hann hafði hætt hjá þessu eða hinu blaðinu, sem þeir unnu fyrir. Hann vildi ráða því sjálfur, um hvað hann skrifaði og hvernig hann stílaði greinar sínar. Um það hafði nú staðið styr. Blöðin, það er að segja eigendur þeirra, höfðu vissar stefnur, fastar og ákveðnar, sem voru ófrávíkjanlegar. Ritstjórar, meðritstjórar og allar þeirra undirtyllur urðu að hlýða þeim stefnum, urðu að vera aðeins spælar í hjólunum, sem runnu yfir svona margar mílur af pappír á mánuði. Arnold hló ergilega. Blaðamenskan var

Grótta, sem malaði alla andagift mjölinu smærra. Arnold hafði aldrei ætlað sér að verða blaðamaður, heldur rithöfundur, sem skrifaði bækur, skáld, sem semdi leiki og sögur. Og nú hafði hann langa sögu í huga, sem honum gafst aldrei tími til að byrja á að rita; en einhverntíma ætlaði hann samt að skrifa hana. Blaðamensku sína hafði hann stundað með það eitt fyrir augum, að kynnast lífinu í sem flestum myndum. Hann var að leita sér að lífsreynslu og fékk hana í fullum mæli í öllum sínum erjum við blöð og ritstjóra.

Af og til á liðnum árum hafði hann skrifað smávegis riss af ýmsu tæi. Smáleiki, stuttar sögur og kvæði í lausu rími, hafði hann sent hinu eða þessu blaði eða tímariti. Flest af þessum skrifum sínum hafði hann fengið endursend, ýmist með vinsamlegum orðum eða illkvittnum aðfinslum. Það voru fleiri rit en dagblöðin, sem völdu efni eftir forskrift. Þessir sneplar reyndu að marka skáldunum bás, leggja þeim fyrir, hvað þau ættu að segja, nema þegar um fræg skáld var að ræða. Frá þeim var alt gott, því blöðin þorðu ekki annað en dáðst að þeim, af hræðslu við almenningsálitið. Hann hafði ekki haft lag á því, að koma sér í mjúkinn við ritstjórana eða almenningsálitið. Jú einu sinni, og hann varð að drekka sig fullan til að hreinsa þá smán úr huga sér.

Þreyttur og í vígahug hafði hann komið, að kvöldi til, snemma í vor, inn á eina af þessum frægu knæpum borgarinnar, sem ögraði landslögunum og lögreglunni með því að hlýða kröfum gestanna. Hann fékk sér þar einn hjartastyrkjandi og kannske fleiri. Enda hafði hann þarfnast þess í meira lagi. Hann hafði sagt upp vinnu, þá um daginn, við blað, sem hann hafði verið fréttaritari fyrir um æði langan tíma. Nýlega hafði hann þá verið hækkaður þar svo í tigninni, að hann var farinn að skrifa stuttar greinar undir nafni um hitt og þetta, er hann sá og heyrði á tölti sínu út um borgina.

Hann hafði verið syngjandi glaður yfir því, að fá tækifæri til að skrifa eitthvað annað en fréttir, sem honum leiddist að elta. Þarna gafst honum færi á að skrifa eitthvað af viti upp á eigin spýtur. En sú gleði varð skammvinn. Bestu greinum hans var stungið undir stól. Hinar, sem komu, voru sundur bútaðar, alt tekið úr þeim, sem vit var í. Hann undi þessu illa og töluverðar urgur höfðu orðið um þessar greinar milli hans og ritstjórans, sem sá um þá deild blaðsins, er hann skrifaði í. Ritstjórinn sagði honum að hann væri að hlaupa fram fyrir skjöldu og skrifaði eins og bandvitlaus maður um málefni, sem hann bæri ekkert skyn á, og skipaði honum að skrifa útúrsnúningalaust um daglega viðburði, sem fólk hefði gaman af að lesa um, að öðrum kosti mundu dagar hans við blaðið taldir.

Arnold var maður, sem ekki þoldi kúgun og nú hafði hann hugsað sér að launa ritstjóranum lambið gráa. Skömmu síðar var hann á ferð árla morguns, því hann hafði "aukið degi í æviþátt", vakað og glaðst með glöðum um nóttina. Hann gekk í hægðum sínum og var að hugsa um að framundan lægi nú strit dagsins. Hann varð að finna efni í grein, nógu

vitlaust og meiningarlaust handa lesendum blaðsins, til að þóknast ritstjóranum og á skrifstofuna varð hún að komast fyrir kvöldið.

Alt í einu heyrði hann álengdar hvellar, skerandi raddir blaðadrengja, en brátt færðust þær nær, svo hann heyrði orðaskil. Drengirnir hrópuðu hástöfum:

"Morð! Morð! Fréttir um morðið í nótt! Margir drepnir! Morð! Morð!"

Fólkið þusti út úr húsunum og keypti blöðin. Strákarnir voru heitir af hlaupunum og ákafanum, glaðir yfir sölunni, sem var mikil. Þeir héldu sína leið; æstir og öskrandi vörubjóðar. Framsíða blaðsins var öll prýdd með myndum af glæpamönnum og því, sem þeir höfðu skilið eftir í slóð sinni. En foringjar þeirra höfðu sloppið og Arnold flaug í hug, hvort þeir og þeirra líkar mundu ekki vera einhverskonar hetjur í augum einhverra þeirra drengja, sem vöndust þessum fréttum eins og algengum viðburðum víðsvegar um landið. Dagblöðin voru fyrst og fremst fréttablöð. Allar fréttir voru vatn á þeirra myllu. En voru ekki fréttir af þessari tegund gerðar full áberandi? Nú hafði hann efni í fyrirtaks blaðagrein, ádeilu á ábyrgðarleysi dagblaðanna gagnvart æsku landsins. Honum hafði oft verið núið því um nasir, að hann væri óreglusamur, skorti alla ábyrgðartilfinningu og léti sér á sama standa um skoðanir blaðsins. Nú ætlaði hann að sýna yfirboðurum sínum það, að hann hefði ákveðnar skoðanir og bæri sóma blaðsins fyrir brjósti.

Um þessa grein Arnolds hafði orðið sú snerra, að hann hafði sagt upp vinnunni og það voru meiri undrin að hann hafði ekki sagt fyr skilið við þennan andlega þrældóm, en "Sannfrjáls maður velur vont, verra til að forðast". Eitthvað varð hann að hafa til að lifa á, og þótt vinir hans hefðu stundum hlaupið undir bagga með honum, þegar honum lá á, var hann ekki neinum skuldugur nema gamla Íslendingnum. Og hann var sá eini, sem hann hafði sagt frá því að hann væri að skrifa bók, því þótt hann væri ekki byrjaður á því að rita hana, þá var hann altaf að kynna sér lífið og leita að efni í bókina. Hann var nú farinn að þekkja sitt af hverju, en honum gafst aldrei tími til að byrja fyrir vinnuargi blaðanna og ófrelsi.

Rithöfundar verða að vera frjálsir orða sinna og gerða. Þeir þola það ekki, að hugsanir þeirra séu vængstýfðar. Það hafði hann sagt þeim blaðamönnunum þegar hann skildi við þá síðast. Já, Arnold hafði verið í gráu skapi þegar hann kom inn á knæpuna það kvöld, en til allrar hamingju átti hann nóg fyrir drykk. Brátt komst hann í gott skap, komst í samræmi við umhverfið og andrúmsloftið. Þarna inni lék höfuðlaus her í bókstaflegri merkingu talað. Hugsanirnar lögðu engin bönd á þessar kvöldriður nútímans, sem höfðu sokkið í óhemjuskap og taumlaust stjórnleysi í leitinni eftir persónulegu frelsi. Uppreisnin gegn réttum og röngum lögum landsins. var þarna í hávegum höfð. Hann hafði talað sannleika af og til í greinum sínum, ekki síst í þessari síðustu.

Á borðinu, sem hann sat við, lá mánaðarrit, sem ekki þótti í siðaðra

manna húsum hæft, einhver hafði gleymt þessu riti eða skilið það eftir. Hann fletti því og las svo eina af þessum sögum, sem þetta rit var frægt fyrir. Það var ekkert vandaverk að skrifa á borð við þessa sögu, sem var klaufaleg og gróf eftirstæling af vissum köflum úr "Söngnum háa" eftir Sudermann.

Til þess að sjá hvað hann gæti nú gert á þessum vettvangi skáldskaparins hripaði hann stutta sögu í sama stíl. Hún byrjaði og endaði með: Munið að lifa! sem hann hnuplaði frá Goethe og notaði sem sitt eigið innblásið orð. Söguefnið hafði hann fyrir augunum og ekki var verkið erfitt. Skyldi nú þetta rit vilja taka nokkuð eftir hann — átölulaust. Hann setti stafina sína undir söguna og utanáskrift á umlagið, sló utan um hana og stakk henni í pósthólfið þarna um nóttina. Morguninn eftir iðraðist hann eftir þessu fljótræði sínu og vonaði að sagan yrði endursend, en það fór á annan veg. Hann fékk bréf frá ritstjóranum ásamt ríflegri borgun og beiðni um fleiri sögur. Sögunni taldi hann það til ágætis, að upphaf og endir væru svo frumleg og gæfu sögunni dýpri meiningu. Smá breytingar hefðu verið gerðar í einstaka stað, því stefna ritsins væri, að flytja raunsæis sögur, er bæru yfir sér blæ sannleikans, sem lesendurnir sæktust eftir.

Arnold hafði orðið fokreiður við ritstjórann og mæddur yfir því, að vita nokkuð eftir sig í þessu saurblaði. Í slíkum ritum ætlaði hann sér ekki að leita frægðar. En peningarnir komu sér vel, enda fékk hann sér ærlega neðan í því, til að drekkja raunum sínum. Um tíma hafði hann óttast að einhver blaðamannanna mundi fá nasaveður af því, að hann hefði skrifað í þetta rit. Ennþá hafði hann hvergi fengið það framan í sig. Blaðamenn voru nú breyskir, en svona rit lásu þeir ekki og hann vonaði að þetta eintak væri gleymt og grafið í glatkistunni.

Síðan í vor hafði hann svo verið atvinnulaus. Hann hefði átt að byrja á bókinni sinni, en það var spursmál hvort blöðin væru ekki búin að eyðileggja hann sem rithöfund. Hann hafði verið svo lengi á þessu rölti að honum leiddist að sitja um kyrt og skrifa. Blaðamenskan var komin í blóðið á honum, hann þjáðist af eirðarleysi, og hann undi sér ekki nema að hann væri á ferð og flugi.

Og nú brosti hamingjan aftur við honum. Hann hafði lofast til að skrifa um sýninguna fyrir blað, sem var nýlega stofnað og var skoðanalega andstætt eldri blöðunum.

Ritstjórinn var ungur maður og hafði sagt honum að gamall vinur sinn hefði bent sér á hann sem ritfæran og mentaðan mann, vanan blaðamensku. Þarna voru Arnold engin skilyrði sett önnur en þau að skrifa greinar tvisvar í viku og sjá til þess, að þær væru skemtilegar aflestrar og gerðu góð skil hinni margþættu og feikna miklu sýningu.

Vægast sagt hafði Arnold verið í sjöunda himni eftir þetta samtal. Einhver hafði þá hugmynd um að hann gat skrifað. Honum hafði loksins hlotnast það, sem hann hafði lengi þráð, að fá að skrifa annað en fréttasnatt. Sýningin gaf honum ótakmarkað svigrúm. Nú gafst honum tæki-

færi til að taka á öllu því, sem hann átti og með sjálfum sér hét hann því, að skrifa nú þannig, að hin blöðin sæu, hverju þau hefðu tapað. Hvað hafði honum svo orðið á? Hann hafði fleiprað út úr sér allri greininni, sem hann var búinn að semja í huga sér, eins og inngang að áframhalds greinum um sýninguna. Sú hrifning, er gagntók huga hans í gærkvöldi, var liðin hjá og greinin honum nú jafn óhöndlanleg og titrandi tíbráin yfir Michigan-vatninu, sem reis hátt og sveljandi eftir storminn í nótt. Honum leiddist sýningin og öll þessi menning og hann hafði meira yndi af því að horfa á öldurnar koma, á grænum möttlum með hvíta hatta, hnarreistar og dansandi upp að ströndinni og hlusta á þær syngja þar sín fornu lög frammi fyrir nýsköpun mannanna.

Arnold stundi við, honum leiddist skrautið og glaumurinn og ekki hvað síst þessi iðandi forvitna mannþröng, sem streymdi áfram hvert sem litið var. Hann var slæmur í höfðinu, hafði þreytandi bakverk og maginn var ekki í góðu lagi. En hvað sem það kostaði, varð hann að skrifa eitthvað fyrir blaðið í dag. Um annað var ekki að ræða heldur en að duga eða drepast, sagði hann við sjálfan sig á íslensku. Undarlegt var það, hversu oft íslenskar setningar komu honum í hug, einkum nú í seinni tíð. Íslenskan var álíka þrálát og þorstinn, sem kvaldi hann, þegar hann hafði ekkert í staupinu. Meðvitundin um það, að hann var Íslendingur, sem hafði gert þjóðerni sitt að útburði, ásótti hann stundum ónotalega. Útburðavælið hafði víst fyr á öldum látið illa í eyrum þeirra, sem voru sekir. Hann var ekki sekur um neitt — hann var fæddur og uppalinn í Vesturheimi. Hann var innlendur maður og útlendings nafnið kærði hann sig ekki um að dragast með, því það var engum hjálp til frægðar og frama hér í landi. En honum svipaði til Páls postula — það sem hann vildi ekki gera, gerði hann. Hann hafði ætlað sér að grafa fortíð sína, en gekk það illa. Hann ætlaði sér löngum að drekka sér aðeins til hressingar, en gleymdi sér svo, að hann hætti ekki ævinlega í tíma. Minni hans og minnisleysi voru hans verstu óvinir.

Foreldrar hans höfðu bókstaflega pæklað hann í íslensku og íslenskum bókmentum, þegar hann var að alast upp, og honum gekk illa að afvatna sig. Honum varð það á af og til að út úr honum hrutu íslensk orð og jafnvel setningar. Enn þá hafði það ekki orðið að slysi. Hann gaf þá vanalega í skyn, að þetta væri gríska, sem hann hefði lært í skóla. Hann óx í augum manna við að kunna það klassíska mál, en íslenskan markaði hann eins og útlending.

Eini maðurinn, sem hann óttaðist á þeim sviðum, var gamli Íslendingurinn. Hann var eini vinurinn, sem hann átti í þessari borg, eini maðurinn, sem hann átti andlegan félagsskap með. Þessi gamli maður var gáfaður, hreinhjartaður og hjálpsamur. Ef til vill dálítið barnalegur og óveraldarvanur, en stundum efaðist Arnold þó um, að sú skoðun sín væri rétt. Á yngri árum hafði hann lært að leika á píanó og hafði verið talinn mjög fær í þeirri list, en svo hafði

hann tapað hægri handleggnum í slysi, sem aldrei var hægt að fá hann til að tala um. Hann átti búð, og seldi hljóðfæri, bækur og annað það, er að hljómlist laut. Þar hafði hann skapað sér umhverfi og andrúmsloft undarlega heillandi fyrir Arnold. Oft hafði hann komið þar inn geðleiður og fótasár, en farið þaðan glaður og hress.

Þrátt fyrir það að gamli maðurinn var rammur Íslendingur, áttu þeir samt svo margt sameiginlegt á andlegu sviðunum, að Arnold gat talað við hann um sínar innri þrár og framtíðarvonir, sagt honum frá því hvað braut skáldsins var grýtt og ill yfirferðar. Þeir áttu báðir listrænt eðli. Þótt aldursmunur þeirra væri nokkur, píanóleikarinn einhentur og skáldið tapaði stundum vitinu út í veður og vind — tapaði minninu, gátu þeir samt svifið sameiginlega inn í æðri heima. En til gamla mannsins kom hann aldrei ölvaður um of, því sá ljóður var á ráði þessa vinar hans, að hann smakkaði ekki vín. Það voru nú líklega ekki lýti — en þar um varð engu þokað og allir hafa einhverja galla við að stríða.

Arnold gekk hægt suður Leifs Eiríkssonar brautina, sem á sýningarsvæðinu var kölluð fánagata sökum þess að þar blöktu nú á báðar hendur voldugir og marglitir fánar frá öllum álfum heims. Það var nógu gaman að hugsa sér að vindurinn veifaði fánum þjóðanna svona rösklega til heiðurs nafni fyrsta hvíta mannsins, sem fann undralönd vestursins. Leifur var Íslendingur, fæddur á Íslandi. Hversvegna létu nú Íslendingar ekkert á sér bera á þessari alþjóða sýningu? Norðmenn sendu hingað skip og Þjóðverjar Zeppelin, sem leið hægt fram og aftur yfir vatninu. Íslendingum hefði verið það innan handar að hafa víkinga skip til sýnis, sigla um vatnið með Leif í stafni. Hvar var nú öll þeirra dýrkun á sinni fornaldar frægð og fornaldar menningu? Fornaldarmenning! Hann hafði ekki minst með einu orði á menningarsögu fortíðarinnar í gærkvöldi. Ekki sagt orð um hámenningu horfinna kynslóða, er voru löngu grafnar og gleymdar og hugvit þeirra hulið, að mestu, rökkurslæðum aldanna. Hér á sýningunni voru þó sýnd mörg Grettistök liðinna alda. Framþróun aldanna var hér greinilega rakin og hann hafði í morgun horft eins og glópur á sögu jarðarinnar, sem vísindamennirnir lásu nú fullum fetum og gáfu fólki kost á að kynnast, ítarlega, hversu undursamleg sú saga er, hversu sannsögull söguritari móðir jörð hefir verið frá alda öðli.

Sköpunarsögu mannanna og framþróun þeirra hafði hún ekki gleymt. Fyrsta lítilfjörlega mannveran, sem kemur til skjalanna í bókfellum jarðar, var á ferðinni fyrir þúsund þúsundum ára. Aldirnar liðu og mannkynið heldur áfram, þótt risavaxin dýr líði undir lok, heldur áfram og markar spor í sand tímans með löngu millibili, dauf spor sem skýrast smám saman og sýna framþróun. Hönd rétti hendi hugur hug í þessari undarlegu og undraverðu sköpunarsögu mannkynsins.

Um óraleið aldanna hafa gengið sárfættir menn og fylgt eftir þeim óljósa draum, að einhverntíma yrði sköpun mannsins lokið, listaverkið

fullkomnað. En listaverkið var aldrei fullkomnað, framundan lá altaf hinn lítt rættur draumur um guðum líka menn. Á þroskabraut sinni höfðu mennirnir hugsað sér guði, sem hefðu máttinn og valdið, sem mannkynið þráði sjálft að eignast. Mátt vitsmuna og vald til undraverðra framkvæmda, höfðu mennirnir nú eignast, en listaverkið var enn þá í smíðum, og draumur kynslóðanna, þráin eftir fullkomnun, var ennþá aðeins eygður í hillingabjarma framtíðarvonanna.

Framþróun aldanna! tautaði Arnold fyrir munni sér. Hann ætti að geta ofið saman fortíð og nútíð, sýnt með sterkum stuttum dráttum myndir af menningu fortíðarinnar og brugðið jafnhliða upp skyndimyndum af nútíðar framþróun. En á hverju átti hann að byrja sköpunarsöguna? Verði ljós? Þar kom efnið upp í hendurnar á honum og hann roðnaði af gleði. Vísindi og tækni nútímans höfðu tekið höndum saman við daufan geisla frá fjarlægri stjörnu. Hugvit nútímans og Arcturus höfðu lagt saman krafta sína til að opna hina miklu sýningu. Nú hitnaði Arnold svo undir uggum, að heimspekingurinn hvarf en fréttaritarinn tók við stjórninni, hann varð að hafa hraðan á. Höfuðþyngsli, bakverkur og magapína urðu að lúta í lægra haldi fyrir því ofurkappi, er nú hafði gripið hann. Þetta var auðveld grein fyrir hann að rita, hann var ennþá vel að sér í sögu. En hér og þar ætlaði hann samt að líta inn til að skerpa minnið. Hann hljóp við fót þar til hann kom í námunda við hið íburðarmikla og sérkennilega hof Maya Indíánanna, sem var hárrétt eftirstæling af musteri því, er var grafið upp undan þúsund ára viltum gróðri.

Hér gaf að líta bústað hofmeyjanna í Uxmal, sem þjónuðu guðunum og héldu vörð um hinn heilaga eld, sem aldrei mátti slokkna. En eldurinn dó út, menning þeirra týndist. Byggingalist þeirra gleymdist. Stjörnuathugunar turnarnir hrundu, myndaskriftin lagðist niður og listrænn iðnaður þeirra hvarf, nema það sem jörðin geymdi í rústum hruninna halla. En öldum síðar reika afkomendurnir um land feðra sinna eins og rótslitinn lýður.

Já, það voru eyður hér og þar í framþróunarsögunni, hugsaði Arnold, um leið og hann hripaði nokkrar línur í vasabókina sína. Annað musteri, sem bygt var hér í fornum stíl og var nákvæm eftirlíking af hinu fræga Philæ musteri, heimsótti Arnold næst, til að aðgá hvað þar væri að finna af fornmenningu Egypta. Hann gekk fram hjá Lama gullhöllinni, því hann ætlaði að minnast á Jehol hofið, sem Kínverjar komu með og var svo íburðarmikið að jafnvel þakið var gulli drifið.

Arnold hraðaði göngu sinni út af sýningarsvæðinu, gekk vestur yfir Michigan Blvd., og hélt norður strætið að vestanverðu, þar til hann kom að listasafninu, því þar átti sýningin líka bækistöðvar. Þegar hann kom þar inn, féll hann í stafi; hann hafði ekki dreymt um, að þarna væru saman komin slík kynstur af málverkum eftir frægustu snillinga, alla leið frá 13. öld fram til þessa tíma. Arnold gekk fram og aftur um hina stóru og björtu sali listasafnsins en aðallega

voru það gömlu meistararnir, sem hann hafði lesið um, er vöktu mestu forvitni hans. Málverka sýningin var svo vel skipulögð, að auðvelt var fyrir hann að byrja á því að skoða elstu myndirnar og halda svo áfram niður aldirnar. Frá fyrri hluta miðaldanna voru helgimyndirnar yfirgnæfandi, fjöldi af altaristöflum, altarisbríkum og þilspjöld úr ýmiskonar kirkju skrúði. Snildarleg vandvirkni og nákvæmni í öllum smáatriðum var alstaðar auðsæ, en allflestar þessar myndir báru þann blæ yfir sér, að dýrðlinga og píslarvotta trúarstefna kaþólsku kirkjunnar hafði mótað huga þessara fornu listamanna.

Arnold fann til þess að hann var staddur í framandi heimi. Hann átti ekkert samfélag með helgum mönnum og dýrðlingum. Þó var hann hrifin af Jóhannesi skírara, málverki eftir Paolo, á fornu spjaldi úr skírnarkapellu hurð. Jóhannes var á fleygi ferð úti á eyðimörkinni, fallegur maður, auðsjáanlega skap í honum. Málarinn hafði ekki gleymt rödd hrópandans, en hún hefir aldrei verið vinsæl. Jóhannes tapaði lífinu vegna þess að sú rödd lét illa í eyrum þeirra er völdin höfðu. Arnold hafði af og til tapað lifibrauði sínu af svipuðum ástæðum.

Af öllum madonnu-málverkunum, er hann gaf sér tíma til að skoða, fanst honum myndin eftir Botticelli aðdáanlegust. Móðirin var svo fögur og eðlileg og vafði barnið svo ástúðlega að sér. En hvaða vit hafði hann á því að dæma um madonnur? Allir heilagir menn og dýrðlingar voru skilningi hans ofvaxnir. Hann yfirgaf þá alveg og svipaðist um eftir fólki, sem ekki var krýnt geislabaug. Það hefir verið fjölmennast á öllum öldum, og myndunum af því hafði hann nú gaman af að kynnast.

En hér var úr svo miklu að velja af meistaraverkum þeirra manna, sem hófu málaralistina í æðra veldi. Arnold gaf aðeins þeim myndum gætur, er vöktu mesta athygli hans. Frá listrænu sjónarmiði hafði hann ekkert vit á að dæma um þær, en sumar þessar myndir virtust elta hann með augunum, og voru svo lifandi í bragði að hann átti von á því að þær gengju fram úr umgjörðunum og byrjuðu að tala á útlendum tungum með fyrri alda málhreim og látbragði. Aðrar voru hljóðar og fjarlægar, út af fyrir sig í þjálfuðum fastskorðuðum innra heimi. Málararnir höfðu skráð skapeinkennin skýru letri. Þarna voru sýndar mannlegar kendir á ýmsum stigum. Mörgu af þessu fólki var hann í raun og veru vel kunnugur; hann hafði mætt því hér og þar búnu samkvæmt tísku 20. aldarinnar.

Arnold leit á úrið sitt, tíminn var að fljúga út úr höndunum á honum. Hann hætti við að skrifa nokkuð um listasafnið, ætlaði aðeins að benda mönnum á, hverjum væri tækifæri að kynnast þar. Hann leit í kring, eins og til að kveðja þessa kunningja sína, en þá kom hann alt í einu auga á mynd, sem hann hafði ekki gáð að fyr. Tilsýndar virtist hún bera af myndunum sem voru umhverfis hann. Hver var þessi tígulegi maður, er stóð þarna látlaus og alvarlegur á fornum búningi? Hann studdi hendinni á brjóstlíkan og horfði hugsandi fram í salinn. Það var eins og myndin talaði til hans, togaði hann til sín.

Ósjálfrátt gekk hann hægt, svona mönnum mætti engin daglega á torginu. Arnold staðnæmdist í hæfilegri fjarlægð og starði með aðdáun á þennan virðulega mann. Skapfesta, mildi og gáfur mótuðu svipinn og augun voru fögur og þótt hann horfði framundan sér, var innsæi í augnaráðinu. Arnold gekk nær og las: Aristotle eftir Rembrandt. Sú tilfinning greip Arnold, að nú væri hann staddur í samfélagi heilagra. Svona hlaut Aristotle að hafa verið. Svona hafði þessi nemandi Platos og kennarinn sígildi litið út á efri árum. Kennarinn djúpvitri og fjölfróði, sem talaði gullnum tungum til samtíðar sinnar og fram til þessa dags. Maðurinn sem trúði á æðri tilveru mannanna en skildi þó svo vel, að hver einstaklingur hefir við tvö öfl að stríða í sjálfum sér, gott og ilt, viljaþrótt og veiklyndi sem á víxl ná yfirráðum í hugum og hjörtum allra manna.

Þetta var síðasta myndin, sem Arnold leit á og áhrif hennar fann hann að mundu verða sér hjálp til að skrifa greinina. Hann hraðaði sér inn í stóran sal, er var útbúinn þarna fyrir fólk til að hvíla sig í, rita bréf eða skrifa um sýninguna, hugsaði Arnold og brosti við. Honum var nú undarlega létt í skapi. Hann valdi sér borð úti í horni; þarna var hljótt og ágætt næði til að vinna. Penninn flaug yfir papírinn, hugsunin var í góðu lagi og orðin komu kvalalaust. Hann gleymdi sjálfum sér og umhverfinu í heimi fortíðar og nútíðar. Þegar hann hafði lokið greininni, las hann hana yfir og þakkaði hamingjunni í huga sér að hafa sloppið undan ástandinu, er var yfir honum í morgun. Hann braut greinina saman og stakk henni í treyjuvasa sinn. Nú var engin hætta á því að hann gleymdi henni aftur. Hann hafði getið þess lauslega að hið fræga málverk Whistlers, myndin af móður hans, hefði verið fengin að láni frá Louvre safninu í Frakklandi. Í sambandi við myndina hafði hann getið stuttlega um afa Whistlers, sem gat sér orðstír ágætan í Dearborn-virkinu, sem að undanteknum örfáum landnemakofum, var þá eina bygð hvítra manna hér á strönd Michigan vatnsins, þar sem nú hafði risið upp mikil og voldug borg. Honum lék forvitni á að sjá þessa frægu mynd og hana var að finna meðal amerískra nítjándu og tuttugustu alda málverka.

Í tveim stórum sölum héngu þessi málverk og brátt kom hann auga á myndina, sem hann var að leita að. Það varð undarlega hljótt um Arnold þar sem hann stóð frammi fyrir móður Whistlers. Það var svo einkennileg haustró yfir myndinni í heild sinni. Blæbrigðin í litunum og gamla konan, sem sat þarna, mintu á mildan haustdag, þegar náttúran er búin að leggja til síðu alt sumarskrúðið og bíður hljóð og róleg eftir komu vetrarins.

Þessa prúðu og virðulegu konu hafði bursti málarans magnað þeim töfrum, að á myndina horfði Arnold ekki lengi, þar til hann var farinn að hugsa um sína eigin móður. Hann hvarf í anda út á hina miklu sléttu vesturlandsins. Á mildum haustdegi hafði hann séð móður sína í síðasta sinni, þar sem hún hafði staðið úti fyrir húsdyrunum og kvatt hann með ástúð og beðið honum allrar blessun-

ar. Hún dó seinna um veturinn síðasta árið, sem hann var í skóla. Hann mundi orð hennar, þegar hann kom heim til að vera við jarðarförina, en síðustu orðum hennar hafði hann nú í raun og veru gleymt. Minningin um foreldra hans tilheyrði fortíðinni, þau voru bæði fyrir löngu dáin og hann hafði sagt skilið við alt sitt fyrra líf og minningar æskuáranna.

"Er þetta ekki Arngrímur Gunnarsson, sem stendur þarna yfir frá?" heyrði hann sagt með háværu hvísli. Hjartað í honum tók viðbragð. Það var langt síðan að hann hafði heyrt nafnið sitt. Hann gaut augunum útundan sér og sá að við dyrnar, skamt frá honum, stóðu tvær konur, sem hann var gamalkunnugur. Þarna voru þær gamla kærastan hans, Alla Bergsson og móðir hennar. Gamla konan horfði á hann, en nú leit Alla við og horfði á hann andartak. Augnaráð hennar var rólegt, rannsakandi og vorkunlátt. Hann var viss um að hún þekti hann en í stað þess að koma og heilsa honum tók hún í handlegginn á móður sinni og sagði lágt: "Við skulum ekki vekja á okkur eftirtekt með því, að tala um og horfa á ókunnugt fólk. Þetta er alt annar maður, eldri og ólíkur Arngrími. Sjálfsagt af norænu kyni, en óskyldu fólki svipar stundum saman, sem er af sama stofni."

"Eg verð líklega að trúa læknisaugum þínum, en——" Fleira heyrði Arnold ekki, því Alla leiddi gömlu konuna með sér inn í næsta sal.

Arnold fann að hann sótroðnaði, svitinn spratt út á enninu á honum og hann skalf á beinunum. Jæja, hún hafði staðið við það að læra til læknis. Hún hafði séð hann og ekki viljað kannast við hann. Augun í henni, læknisaugun höfðu afhjúpað hann. Hún meinti það, að hann væri ekki sami maðurinn. — Auðvitað var hann ekki sami maður nú. Hvað hafði hún séð? Fingraför óreglunnar, hann var orðinn hvapholda og litarhátturinn breyttur. En hvað um það? Ef til vill voru það fötin hans, snjáð og velkt, sem hún hafði flúið. Hún var vel klædd sjálf og gikksháttur í smábæja gikkjum er óviðjafnanlegur. Hún var sjálfsagt læknir í einhverjum smábæ og embættistignin hvíldi þungt á henni, — þóttist kannske yfir aðra hafin. En Alla hafði ekki verið gikkur, því hún hafði haldið í hönd með ótal smælingjum og tekið svari þeirra. Kannske hún hafi meint hvert orð, sem hún sagði, augnaráðið var ókunnuglegt, það var hans eigin ímyndun, sem var að verki. Hún hafði ekki haft neina hugmynd um, hver hann var. Snöggvast flaug honum í hug, að fara á eftir þeim mæðgunum og heilsa þeim, — nei, það gat hann ekki, hann hafði sagt skilið við alla sína fortíð, ætt og uppruna. Hann hafði brent allar brýr að baki sér og auk þess langaði hann ekki til þess, að standa aftur eins og fyrir rétti undir rannsakandi augnaráði Öllu Bergsson; og vorkunsemi frá henni kærði hann sig ekki heldur um. Jú, hún vissi vel hver hann var; andrúmsloftið umhverfis þau hafði á einu augnabliki verið þrungið af þeirri vitund, að þarna mættust þau eftir öll þessi ár. Sú vitund var sterkari en orð. En Alla vildi ekki kannast við hann. Hann ætlaði líka að sýna henni að hún væri honum með öllu

gleymd og honum óþekkjanleg. Hann gekk hratt inn í salinn, sem þær mæðgur fóru inn í, án þess að líta á þær gekk hann fast framhjá þeim á leiðinni út.

Arnold var í undarlega æstu skapi. Einu sinni hafði honum þótt vænt um þessa fallegu, hreinu stúlku, sem nú var orðin þroskuð kona, fegurri en nokkru sinni fyr. Hann hafði sagt henni upp í bræði sinni út af kvæði, sem hann hafði ort. Hann hafði sýnt henni kvæðið og beðið um álit hennar. Hann átti von á, að hún yrði hrifin af kvæðinu, en í þess stað sagði hún honum, að kvæðið væri lélegt og að viðlagið bæri það ofurliða. Kvæðið var á íslensku, og hann hafði valið fyrir viðlag: "Dagshríðar spor svíða." Hann hafði verið ákaflega hrifinn af Þormóði.

Þá hafði hann heitið því fyrir sér að yrkja aldrei framar á íslensku og líka komist að þeirri niðurstöðu, að alt þetta sérlíf Íslendinga væri þeim aðeins fjötur um fót og tefði þeirra andlega þroska í innlenda þjóðlífinu. Hann hafði ákveðið að verða hundrað prósent innlendur rithöfundur. Hann hafði verið sár við Öllu þá, en seinna þegar honum rann reiðin, hafði hann vonast eftir því, hálft í hvoru, að hún mundi biðja sig afsökunar á útásetningunum, en hún lét það vera, og ekki var heldur neina sorg að sjá á henni út af heitrofinu. Nú vissi hann að kvæðið hafði verið leirburðar þvaður; en vegir þeirra voru fyrir löngu skildir, og það besta var, að hvorugt kærði sig um að kannast við hitt. — Hún var orðin læknir, það hafði hún ætlað sér, en hann setti markið hærra, enda hafði leiðin orðið honum torsótt. Öllu var læknisfræðin guðvelkomin, en það þurfti meira en góðar námsgáfur, til þess að verða skáld, þar kom til greina skapandi vit, þekking á lífinu og raunsær skilningur á mannlegu eðli. En "ógurleg er andans leið, upp á sigur hæðir" og við skáldskapar listina var hugur hans bundinn.

Arnold hafði rekið sig óþægilega á fortíð sína við það að sjá Öllu, en það var ekkert nýtt fyrir hann að stríða við þennan skrítna klofning í huga sér. Af og til reis Íslendingurinn upp í huga hans eins og afturganga og vændi hann þess að hann væri sjálfum sér ótrúr, svikari við sinn innra mann og falsari. En hann átti viljakraft til að þegja þær raddir í hel. Hann átti rétt á því, að ganga frjálsum fótum þá braut, er hann hafði sjálfur kosið sér. Eina ráðið til þess að ná andlegu jafnvægi og hreinsa hugann af öllum ákærum var, að fá sér ærlegan "skota", drekkja Öllu og öllum gömlum minningavofum í veigum guðanna.

Þá um kvöldið var mannmargt í stóra borðsalnum á neðstu hæð í Drake gistihöllinni. Þar var dans og kvöldverður, sem sýningargestirnir fjölmentu á. Birgir Norman, einhenti píanóleikarinn, hafði boðið þangað ungum hjónum, sem hann langaði til að sýna gestrisni. Konan var honum vel kunnug frá þeim tíma, sem hún hafði stundað hljómlistarnám. Hún hafði oft komið inn í búðina hans, keypt af honum bækur og stundum spilað fyrir hann tónverk, sem hún var að læra.

Birgir gamli hafði fest sér borð út við gluggaröðina, sem vissi fram að

vatninu og þar sat hann nú einn sér og fylgdi með augunum ungu hjónunum, sem voru að dansa. Þarna var nægilegt dansrúm fyrir fjölda manns, en alt í kring í salnum voru matarborðin og fólkið sat við þau, borðaði og ræddi saman hljóðlega. Hljóðfærasveitin var þolanleg og gamla manninum leið vel. Yfir salinn flögruðu regnbogalitir ljósgeislar, sem brugðu töfrablæ á dansfólkið, er allflest bar á sér yndissvip æskunnar. En brátt varð gamla manninum litið út um gluggann og hann gleymdi sér við það, að horfa á kvikuna í vatninu og hin draumkendu blæbrigði hverfandi dagsbirtu, sem blandaðist sterkum rafljósum. Sunnan við sandrifið sem lá út í vatnið nokkru norðar en gistihúsið, sá hann fólk vera að baða sig, þrátt fyrir það að öldurnar, glettnar í bragði, létu gusurnar ganga upp að landsteinum.

Alt í einu kom Birgir gamli auga á mann, sem kom gangandi suður fjöruna. Honum sóttist ferðin seint og þegar hann kom nær, sá gamli maðurinn að þetta hlaut að vera ölvaður maður. Hann stauladist áfram, riðaði á fótunum og tók annað veifið hálfgjörð bakföll.

Af og til stansaði hann eins og til að átta sig eða safna kröftum til að halda áfram. Á hverju augnabliki átti Birgir von á því að sjá hann missa jafnvægið og detta ofan í sandinn, en það slapp til, hægt og sígandi færðist hann nær og gamli maðurinn ætlaði ekki að trúa sínum eigin augum þegar hann sá, að Arnold var þarna á ferð. Birgir gamli spratt upp úr sæti sínu, ósköp var að sjá drenginn svona til reika, og hann var á leiðinni beint upp í fangið á lögreglunni. Hann afsakaði það í skyndi við ungu hjónin, að hann yrði að yfirgefa þau um stund, en kvaðst koma bráðlega aftur. Hann varð að ná í Arnold og láta keyra hann heim og koma honum í rúmið hvað sem tautaði.

Næsta morgun sat Birgir Norman inni í biðsalnum í einu af bestu sjúkrahúsum borgarinnar. Hann var að bíða eftir lækninum, sem hann hafði sótt í gærkvöldi eftir að Arnold var fluttur á sjúkrahúsið. Læknirinn og hann voru gamlir vinir og höfðu mælt sér mót þarna að afloknum morgunstörfum læknisins í sambandi við sjúklinga hans á spítalanum. Birgi gamla var farið að verða órótt, því það var komið nokkuð fram yfir tiltekinn tíma. En nú kom læknirinn inn. Þeir heilsuðust og Birgir spurði um Arnold.

Læknirinn svaraði: "Maðurinn er fárveikur og auk þess hálf eyðilagður af óreglu. Eg er að bíða eftir x-geislaplötu, sem var tekin í morgun; eftir að eg hefi séð hana, get eg sagt þér nánar um ástand hans. Þetta er ekkert auðveldur sjúklingur, sem þú afhentir mér í gærkvöldi."

"Eg veit það, og þessvegna leitaði eg til þín; ef nokkur læknir getur bjargað sál og líkama þessa gáfaða og vegavilta drengs, þá ert það þú. Þér treysti eg öllum fremur."

"Er þessi maður að einhverju leyti þér áhangandi?" spurði læknirinn.

"Ekki beinlínis, en hann er vinur minn og samlandi, að eg hygg. Það er svipað með vináttuna og ástina; það er ekki ævinlega auðvelt að gera sér grein fyrir því, hversvegna manni verður hlýtt til eins, frekar en ann-

ars. Líklega er það andlegur skyldleiki þó."

"Andlegur skyldleiki! Þið eruð ólíkir."

"Ekki svo mjög; þegar eg var ungur, var eg örlyndur og skapheitur í meira lagi, hafði gaman af víni, og fyrir augnabliks ógætni tapaði eg handleggnum, sem gerði mér ómögulegt að njóta þeirrar einu gáfu, sem mér var vel gefin. Þessi ungi vinur minn er á hraðri leið til að eyðileggja sjálfan sig. Frá þeim örlögum er mér áhugamál að bjarga honum og vil ekkert til spara."

"Hvaða tegund af manni er þetta? Er hann hljómlista maður?" spurði læknirinn hægt.

"Hann er skáld — eða gæti verið það, ef vinnuþróttur hans og stöðuglyndi væru ekki að veiklast. Hér er grein, sem eg tók úr vasa hans í gærkvöldi; vafalaust hefir hann skrifað hana á hlaupum í gær. Mig langar til að þú lítir lauslega yfir hana, því þá sannfærist þú um, að hér á maður í hlut en ekki eingöngu rekald."

Læknirinn tók greinina hálf óviljugur, leit á hana hér og þar og las kafla úr henni. Gamli maðurinn sá að svipur hans varð léttari eftir því, sem hann las meira. Alt í einu leit hann upp og sagði: "Þessum manni er áreiðanlega sýnt um að skrifa og það er auðséð, að hann er bæði gáfaður og mentaður maður. Eg get ekki lofað neinu ákveðnu, en skal stunda hann eins og hann væri sonur þinn. Læknar reyna ævinlega að gera það sem þeir geta, en við gerum engin kraftaverk."

★

Nokkrum árum síðar stóð Birgir gamli Norman við borðið í skrifstofunni sinni og raðaði saman úrklippum úr ýmsum dagblöðum borgarinnar, sem voru greinar og umgetningar um *Sárfætta menn*, nýútkomna bók eftir Arnold Gunther. Blöðin töluðu lofsamlega um bókina, rithöfundinn og hans fyrri ára starf — sem blaðamanns.

Gamli maðurinn brosti kankvíslega. Þessar úrklippur ætlaði hann að senda Arnold að gamni sínu. Hann saknaði þess, að geta nú aldrei spjallað við hann. Birgir gamli reikaði fram og aftur um stofugólfið og talaði í lágum róm við sjálfan sig: Eg vissi að í honum bjó neistinn — eg vissi að hann heyrði oft undarlegar raddir — eg skildi, að hann var hálfærður af hafgúu seið stórborga lífsins, en undir öllum þeim glamranda, sem var út úr tóntegund við lífið sjálft, kvað lágróma, hreinn og hljómfagur strengur. Og þá heyrði eg hörpuslátt skáldsins. — —

★

Aðalheiður Bergsson, læknir, horfði áhyggjufullum augum á eftir síðasta sjúklingnum, sem hafði komið inn í viðtalsstofu hennar um morguninn. Á skrifborðinu hennar lágu óopnuð bréf og bók, sem morgunpósturinn hafði fært henni. Eftir að hafa lesið bréfin tók hún bókina og leit á utanáskriftina og sá, að hún hafði verið í fyrstu send heim á æskustöðvar hennar, en móðir hennar svo sent hana áleiðis. Þetta var rithönd Arngríms Gunnarssonar, ef hún mundi rétt. Hún spretti fljótlega umbúðunum utanaf bókinni og

leit á hana. Þetta var skáldsaga, *Sárfættir menn,* eftir Arnold Gunther. Þegar hún opnaði bókina fann hún þar bréfspjald, sem ritað var á:

Hér kemur þá loksins nokkurskonar bragarbót á gamla kvæðinu, sem þér geðjaðist lítt að endur fyrir löngu. Eg vona að þú kannist við ýmsar gamalkunnugar myndir frá æskuárum okkar; þær hafa verið dregnar með hlýjum huga.

Arngrímur

Hamingjunni sé lof! Hann hefir þá bjargast af. Hún hafði um langan tíma ásakað sig um það, að viðkynning þeirra hefði ekki orðið honum til hamingju. Hún skoðaði bókina í krók og kring, og aftan á kápunni, sem var utan um spjöldin, var mynd af höfundinum og stutt umgetning. Hún las þar, að hann væri af íslenskum ættum, en skrifaði undir gervinafni. Hún horfði lengi á myndina. Þarna var hann líkari því sem hún mundi eftir honum, en hann hafði verið fyrir nokkrum árum, þegar hún sá hann í listasafninu í Chicago. Með töluverðri fyrirhöfn hafði henni tekist að telja móður sinni trú um að þetta væri ekki Arngrímur. Hann hafði litið þannig út, að hún kærði sig ekki um, að af því færu neinar sögur í heimahögum þeirra. Arnold Gunther! Engin furða þótt henni hefði gengið illa að leita uppi Arngrím Gunnarsson í hafi stórborgarinnar.

Hún fletti bókinni og byrjaði að lesa.

# Bókfregn

**Saga Íslendinga í Vesturheimi,** eftir Þorst. Þ. Þorsteinsson, þriðja bindi, er nú fyrir nokkru komin á markaðinn. Þetta er saga Nýja Íslands frá upphafi bygðar og niður til þessa tíma.

Um það, hversu tæmandi að efni og frásögn bókin er, ber mér ekki að dæma — hefi því miður aldrei haft tíma til að kynna mér öll þau gögn, sem fyrir hendi voru, né heldur gæti eg vitað um önnur þau skilríki, er höfundurinn hefir persónulega aflað sér. En að öllu samanlögðu finst mér, að þetta muni vera besta bindið, sem komið er. Það á það sammerkt við fyrri bindin, að vera ritað á skemtilegu og auðlesnu máli. Um leið og landnemarnir eru ættfærðir og heimfærðir til sinna fornu kynna, gefur höf. sér tíma til að líta inn á hverju býli, eða að slást í fylgd með þeim, grenslast eftir um hugarfar þeirra og leita uppi það, er þeim lætur best. Með öðrum orðum — hjartahlýja höf. skín á bak við nálega hverja línu, og manni finst hann vinur þeirra allra.

Eftir þessu áframhaldi að dæma virðist verkið ekki hálfnað enn. En eins lengi og söguhöf. heldur heilsu og lífi og nógu margir efnaðir hugsjónamenn eru honum bakhjarl, er öllu óhætt. En samt verður aldrei of oft brýnt fyrir mönnum, að kaupa bókina, allar bækurnar, frá upphafi og borga þær. Á því veltur öll framtíð útgáfunnar.

# Tuttugasta og sjötta ársþing Þjóðrœknisfélags Íslendinga í Vesturheimi

var þingboði samkvæmt sett í samkomuhúsi Good Templara á Sargent Ave., í Winnipeg, mánudaginn 26. febrúar 1945, kl. 10 árdegis. Þingið hófst með því að forseti lét syngja sálminn, "Þín miskun ó guð er sem himininn há". Þingmenn talsvert á annað hundrað að tölu sungu sálminn með hrifningu; Gunnar Erlendsson lék á hljóðfærið. Þá flutti séra Sigurður Ólafsson stutta bæn.

Því næst var lesið hið venjulega þingboð, er birt hafði verið í íslensku vikublöðunum í Winnipeg, hljóðaði hin áætlaða dagskrá á þessa leið:

1. Þingsetning.
2. Ávarp forseta.
3. Kosning kjörbréfanefndar
4. Kosning dagskrárnefndar.
5. Skýrslur embættismanna.
6. Skýrslur deilda.
7. Skýrslur milliþinganefndar
8. Útbreiðslumál.
9. Fjármál
10. Fræðslumál.
11. Samvinnumál
12. Útgáfumál
13. Bókasafnið
14. Kosning embættismanna
15. Ný mál
16. Ólokin störf og þingslit.

Þessu næst flutti forseti félagsins, dr. Richard Beck, ávarp sitt til þingsins, var ræða hans bæði háfleyg og ítarleg; var þar með fögrum orðum getið hinna miklu eyktamóta í lífi hinnar íslensku þjóðar, — lýðveldishátíðarinnar, er haldin var þar á síðastliðnu sumri. — Síðar í erindi sínu nafngreindi forsetinn látna félagsmenn — og kvaddi þingheim til að standa á fætur í þakklátri minningu um þá, er látist höfðu á árinu. Þessu næst gerði forseti skilgreiningu á st?? félagsins á umliðnu ári; gat hann um ferð sína heim til Íslands til þess að vera þar erindisreki Þjóðræknisfélagsins og Íslendinga í Vesturheimi.

Undir lok ræðu sinnar bauð forsetinn velkomna til þingsins þá Dr. Helga P. Briem, aðalræðismann frá New York, og hr. Árna G. Eylands, forstjóra, og forseta Þjóðræknisfélags Íslendinga í Reykjavík. Dr. Beck gat þess, að báðir þessir kæru gestir væru velgerða og stuðningsmenn félagsins, og báðir gestir þingsins. Var gestunum báðum fagnað af þingheimi með miklu lófaklappi. Dr. Beck endaði ræðu sína með heitum áeggjunarorðum til starfs og framsóknar á sviði þjóðræknismála vorra.

## ÁVARP FORSETA

Háttvirtu gestir og þingmenn!
Góðir Íslendingar!

Þegar vér, menn og konur af íslenskum stofni, komum árlega saman á þjóðræknisþing vor, gerum vér það í nafni ræktarseminnar við ætt vora og erfðir, og jafnframt sérstaklega í þeirri sannfæringu, að með því að varðveita og ávaxta sem best og sem lengst hið göfugasta og lífrænasta í menningararfi vorum, gjöldum vér drengilegast og varanlegast borgaralega þegnskuld vora. Í þeim heilbrigða og þjóðholla anda hafa þjóðræknisþing vor verið háð í heilan aldarfjórðung, og undir sama merki mun starfsemi félags vors framvegis unnin, því að enn stendur stefnuskrá þess í fullu gildi, og verðskuldar sem víðtækastan stuðning íslensk-ættaðs fólks hér í álfu.

Síðastliðið sumar gerðist einnig sá atburður á Íslandi, sem á einstæðan hátt dró athygli manna víðsvegar um lönd að merkilegri sögu og menningu hinnar íslensku þjóðar — endurreisn hins íslenska lýðveldis. Eðlilega sló sá sögu-

legi viðburður á næma strengi í brjóstum Íslendinga vestan hafs, eins og fagurlega kom fram í veglegum hátíðahöldum þeirra á mörgum stöðum, í ræðum og kvæðum á þeirri fagnaðarstundu og í hlýjum kveðjuskeytum til ríkisstjórnar Íslands og ættþjóðarinnar.

Eftirminnilegust verða þau miklu tímamót í sögu Íslands þó að sjálfsögðu öllum þeim — og þeir skiftu tugum þúsunda — sem áttu því láni að fagna að mega taka þátt í hinum ógleymanlegu hátíðahöldum að Þingvöllum 17. júní 1944. Enginn Íslendingur, sem nokkuð verulega þekkir til ævi þjóðar sinnar, gat verið viðstaddur að Lögbergi, þegar lýst var að nýju lýðveldi á Íslandi, svo að hann fyndi eigi þyt sögunnar yfir höfði sér. Af þeim sjónarhól — helgistað þjóðarinnar — opnaðist útsýn langt og vítt yfir farinn feril hennar.

Og margs var að minnast þessa örlagaríku stund að Lögbergi, óskastund hinnar íslensku þjóðar. Hugurinn hvarflaði að vonum yfir aldanna djúp, aftur í tímann til þeirra "frumherja frelsis", sem landið námu, settu þar allsherjarþing og þjóðveldi á stofn og lögðu með því þjóðfélagsskipulagi grundvöllinn að auðugu menningarlífi, er bæði aflaði þjóðinni víðfrægðar, þá er tímar liðu, og varð henni, sem er enn meira um vert, ylgjafi og orkulind öldum saman, þegar svartnætti erlendrar áþjánar og annara hörmunga grúfði yfir henni. Hugurinn staðnæmdist einnig við þær hrollköldu myndir úr sögn hinnar íslensku þjóðar á niðurlægingartímabili hennar. En með myrkur þeirra og ömurleika í baksýn, varð það ennþá dásamlegra, að þjóðin skyldi hafa lifað, og ekki einungis það, heldur haldið vakandi hjá sér á öllum öldum harla miklu menningarlífi.

Þessi aldalanga en að lokum sigursæla barátta hinnar íslensku þjóðar gegn erlendri kúgun og tíðu ofríki náttúruaflanna er færð í fagran og verðugan orðabúning í þessum erindum úr verðlaunaljóðum Huldu skáldkonu í tilefni af lýðveldisstofnuninni:

"Þú heilaga jörð með sögu, söng
og sólstafi frelsis bjarta.
Hve örlög þín síðar urðu ströng
við ánauðarmyrkvann svarta.
Sem djúpsærð hetja þú varðist varg,
með vordraumsins ljós í hjarta."

"Og aldir liðu með álög mörg. —
En eilíf er frelsisþráin,
sem nam okkar land við brim og björg
og blessaði skipgengan sjáinn.
Hún geymdi sín vé og hof og hörg
uns harðstjórn og fals voru dáin."

Jóhannes skáld úr Kötlum tók snjalt í sama streng í verðlaunakvæði sínu, er hann segir:

"Þegar svalt við Sökkvabekk
sveitin dauðahljóða,
kvað í myrkri um kross og hlekk
kraftaskáldið móða.
Bak við sára bænarskrá
bylti sér hin forna þrá,
þar til eldinn sóttu um sjá
synir vorsins góða."

Þessvegna varð án efa efst í hugum flestra fagnaðarstundina langþráðu að Lögbergi þakklát minningin um þá alla, sem aldrei sloknaði í brjósti heilög glóð frelsisins og héldu henni lifandi hjá öðrum, minningin um forystumennina djörfu og glæsilegu, sem sagan geymir gullnu letri á spjöldum sínum, og einnig minningin um þúsundirnar mörgu, sem sagan kann eigi lengur að nefna, en engu að síður börðust sinni hraustu frelsisbaráttu og áttu því sinn fulla þátt í endurreisn lýðveldisins. Bjart var um þá alla, karla og konur, í þakklátri minningu þjóðarinnar, þegar aldagamall og hjartfólginn frelsisdraumur hennar rættist að fullu. Þessvegna voru eftirfarandi ljóðlínur úr lýðveldisljóðum Kolbeins Högnasonar talaðar beint út úr hjarta þjóðarinnar:

"Vér blessum menn, er lengi þetta þráðu,
—sem þorðu slíkt, þó gæti ei annað neitt.
Vér blessum þá, sem þessu fyrir spáðu,
þó þeirra máli yrði ei tilheyrn veitt.
Vér blessum þá, er þunga stríðið háðu

—er þoldu pústra, smán og spottið eitt.
Vér blessum þá, er þessu marki náðu
—er þetta mál til sigurs gátu leitt."

Sem menn og konur af íslenskum stofni og hluthafar í íslenskum menningararfi tókum vér heilum huga undir þann þakkaróð, minnug þess, að það er ekki lítils virði, að eiga sér að ætternislegum og menningarlegum bakhjarli slíka sögulega arfleifð, vilji menn leggja það á sig að tileinka sér hana að einhverju leyti, skilja hana og meta.

Hinar fjölmörgu hlýju hátíðar kveðjur og heillaóskir, sem ríkisstjórn Íslands og þjóð bárust frá útlöndum í tilefni af lýðveldisstofnuninni, vitnuðu einnig um víðtækan og varanlegan skerf ættþjóðar vorrar til heimsmenningarinnar, og þá sér í lagi á sviði lýðræðislegs þjóðskipulags og í heimi bókmentanna. Ágætt dæmi þess er kveðja sú til Íslendinga, sem hinn kunni norski fræðimaður, próf. A. H. Winsnes, sendi þeim, og hófst á þessa leið:

"Allur hinn mentaði heimur stendur í þakkarskuld við íslensku þjóðina, sendir henni þakkir 17. júní, er Íslendingar komu í röð alfrjálsra þjóða.

"Fyrir þúsund árum var stofnað þjóðfélag á Íslandi, sem ól í sér frjóanga þess lýðríkis, sem harðstjórn Þjóðverja, hið svonefnda germanska eða norræna Þýskaland, leggur í dag fram allan mátt sinn til þess að eyða. Á Íslandi þróaðist andleg menning, orðlist og bókmentalegar erfðavenjur svo frjóvgandi og sérstæðar, að íslensk menning fékk alveg einstæð sérkenni, með svo skapandi afli, að hún varð ómetanleg evrópiskri menningu.

"Framar öðrum standa norrænar þjóðir í þakkarskuld við Íslendinga, og Norðmenn fremur öðrum frændþjóðunum. Ísland hefir gefið norsku þjóðinni svo mikla andlega næringu, að við naumast getum hugsað okkur Norðmenn sem sjálfstæða þjóð án hinna íslensku áhrifa. Andreas Munch hafði rétt fyrir sér, er hann í kvæði til Íslands, sem nú er nálega 100 ára, talar um "lífsafl fyrir komandi daga", sem varðveitt var á Íslandi."

Drengilega mælist hinum norska fræðimanni í garð íslensku þjóðarinnar. Og það eru eigi aðeins frændur vorir Norðmenn, sem hafa sótt andlega næringu í nægtabrunn íslenskra sögu- og menningarerfða. Íslendingar sjálfir hafa þangað sótt á liðnum öldum "lífsafl fyrir komandi daga", og enn er þar að finna andlegan vængjaþrótt og eggjan til dáða.

Sýningin úr frelsis- og menningarbaráttu Íslendinga, sem haldin var í sambandi við lýðveldishátíðina, og efnt var til beinlínis með því markmiði að draga athygli þjóðarinnar sjálfrar að sögu hennar og arfleifð, náði einnig ágætlega þeim lofsverða tilgangi sínum. Enginn, sem hafði augun sæmilega opin, gat gengið svo um sýningarherbergin, að hann sæi eigi í skýrara ljósi heldur en áður, hversu óvenjulega merkilegur og einstæður um margt farinn ferill hinnar íslensku þjóðar er í raun og veru, og hversu menningar og framsóknarviðleitni hennar, löngum við hin kröppustu kjör, er aðdáunarvert fyrirbrigði í menningarsögu heimsins og börnum Íslands hvarvetna stöðug lögeggjan til frjósamra fremdarverka.

Ekki var það heldur nein tilviljun eða út í hött, að þeir ágætu og fróðu menn, sem undirbúið höfðu þessa sögulegu sýningu, höfðu valið henni heitið: **frelsi** og **menning.** Því, eins og þeir lögðu réttilega áherslu á í formálsorðunum að sýningarskránni og eg hefi annarsstaðar vikið að, þá er saga Íslands talandi tákn þess, að blóm menningarinnar vex aldrei nema úr jarðvegi frelsisins. Skin og skuggar skiftast á í sögu hinnar íslensku þjóðar, fjölskrúðugt menningar- og athafnalíf eða fábreyttara, eftir því hversu mikils frelsis hún naut á hverjum tíma. Sama máli gegnir vitanlega um aðrar þjóðir heims; frelsið er fjöregg menningarinnar.

Segja má því með sanni, að lýðveldishátíðin hafi eigi aðeins dregið athygli umheimsins að merkilegri sögu og menningu hinnar íslensku þjóðar, heldur

hafi hátíðin jafnframt glöggvað skilning þjóðarinnar sjálfrar á menningararfi hennar og hlutverki. Mætti það einnig verða oss Íslendingum í landi hér áminning um það, að þau sögu- og menningarverðmæti, sem vér höfum hlotið frá ættjörðinni eiga ennþá "Mátt, er skapar virðing allra þjóða", eins og Hulda skáldkona orðaði það heppilega í kvæði sínu "Hugsað vestur", sem ort var til Íslendinga hérna megin hafsins í tilefni af lýðveldishátíðinni, og er hvorttveggja í senn drengileg kveðja og fögur.

Sálarrætur vor allra, sem íslenskt blóð rennur í æðum, liggja djúpt í mold og menningar-jarðvegi ættjarðar vorrar! Þessvegna fórust Jóhannesi úr Kötlum bæði fagurlega og viturlega orð um hin nánu tengsl manns við ættlandið er hann segir í fyrnefndu hátíðarkvæði sínu:

"ævi vor á jörðu hér
brot af þínu bergi er,
blik af þínum draumi."

Af ræktarsemi við ætternislegan uppruna sinn og af hollum trúnaði við menningarerfðir sínar hefir fjöldi fólks af íslenskum stofni í landi hér lagt starfsemi Þjóðræknisfélagsins lið undanfarinn aldarfjórðung; og enn á félagið djúpstæð, og áreiðanlega sumstaðar vaxandi ítök í hugum fjölmargra íslenskra manna og kvenna víðsvegar um þessa álfu, sem unna og vinna málstað þess og skilja hvert menningarlegt tap það er og ófrjótt til einstaklingsþroska að slitna úr sambandinu við uppruna sinn og láta menningarverðmæti sín fara forgörðum.

Með einlægum söknuði minnumst vér hinna ágætu félagsskystkina, sem horfið hafa úr hópnum á árinu út í móðuna miklu. Má þar fyrst telja tvo heiðursfélaga Þjóðræknisfélagsins, þá dr. B. J. Brandson og dr. C. H. Thordarson, sem afburðamenn voru hvor á sínu sviði og borið höfðu víða hróður þjóðstofns vors. Aðrir félagsmenn og konur, sem fallið hafa frá á árinu, eru þessir, eftir því, sem mér er kunnugt um: Þórður Bjarnason, Selkirk; Ásbjörn Eggertson, Winnipeg; Jón Sigfússon Gillis, Brown; Pálína Guðlaug Goodman, Wynyard; Ingibjörg Thordarson, Selkirk; Thorgils Thorgeirsson, æfifélagi, Winnipeg; Björn Sæmundsson Líndal, Winnipeg; Björn Methusalemsson, Ashern; Málfríður Einarsson, Hensel, N. Dak.; Sigurður Bjarnason, Winnipeg; Jónas Kristján Jónasson, Winnipeg; Inga Thorlákson, Calgary; Magnús Snowfield, Seattle, Wash.; Sigmundur Laxdal, Blaine, Wash.; Bjarni Jones, Minneota, Minn.; Thorlákur Thorfinnsson, Mountain, N. Dakota; Eiður Johnson, Selkirk; Goðmunda Þorsteinsson, Winnipeg.

Í þessum hóp voru menn eins og Thorlákur Thorfinnsson, Sigmundur Laxdal og Jón Sigfússon Gillis, sem verið höfðu árum saman forystumenn þjóðræknisdeildar sinnar og jafnan reiðubúnir að vinna málstað vorum gagn. Svipuðu máli gegnir um aðra í hópnum, og eftirsjá er að þeim öllum úr fækkandi fylkingu eldri kynslóðar vorrar, sem grundvöllinn lagði að félagslegri starfsemi vorri á ýmsum sviðum. Þökkum vér þeim öllum samstarfið í þágu vorra sameiginlegu áhugamála og tjáum skyldmennum þeirra einlæga hluttekning vora. Heiðrum svo minningu vorra föllnu samherja með því að rísa á fætur.

**Útbreiðslumál**

Í útbreiðslumálunum er það fyrst og ánægjulegast til frásagnar, að stofnuð var á árinu (28. maí s. l.) fjölmenn þjóðræknisdeild í Blaine, Wash. Er það sérstaklega að þakka áhuga og ötulli viðleitni séra Alberts E. Kristjánsson, fyrv. forseta félags vors og umboðsmanni þess á vesturströndinni, ásamt góðum stuðningi annara áhrifamanna og kvenna á þeim slóðum, sem velviljaðir eru félagsskap vorum, eins og lýsir sér í embættismannavali hinnar nýju deildar: Forseti, séra A. E. Kristjánsson; vara-forseti, M. G. Johnson; ritari, séra G. P. Johnson; vara-ritari, Mrs. G. P .Johnson; féhirðir, Andrew Danielson; vara-féhirðir, Sveinn Westford; fjármálaritari, H. S. Helga-

son og skjalavörður, Gestur Stephansson. Jafnframt því er eg býð deildina velkomna í félagið og óska henni nytjaríkrar starfsemi og langra lífdaga, vil eg í nafni stjórnarnefndar og félagsfólks í heild sinni þakka innilega öllum þeim, sem hér hafa drengilega að verki verið.

Þá hefir verið hafinn nokkur undirbúningur að stofnun þjóðræknisdeildar að Lundar, og eru allar líkur til þess, að það megi takast, ef vel er á þeim málum haldið. Allmargir einstaklingar hafa og gengið í félagið á árinu.

Sérstakur og einstæður þáttur í útbreiðslustarfinu síðastliðið starfsár var koma dr. Sigurgeirs Sigurðssonar, biskups Íslands, en hann heimsótti íslenskar bygðir beggja megin landamæranna og flutti erindi á samkomum margra deilda félagsins, þó hann gæti eigi, vegna takmarkaðrar ferðaáætlunar sinnar, komið eins víða og hann eða stjórnarnefnd félagsins hefði kosið. En hvar sem hann kom, vann hann þjóðræknismálum vorum og íslenskum félagsmálum í heild sinni hið mesta gagn, beint og óbeint, laðaði hug manna að Íslandi og íslenskum menningarerfðum og kveikti vafalaust hjá mörgum nýjan áhuga fyrir þeim málum.

Forseti félagsins hefir á árinu heimsótt deildir þess í Árborg, Winnipeg, Selkirk, Norður Dakota, og að Gimli, og flutt erindi á samkomum þeirra, sumstaðar oftar en einu sinni. Síðan hann kom úr Íslandsförinni, hefir hann einnig, auk ræðunnar á Íslendingadeginum að Gimli, flutt yfir 20 ræður og erindi um ferð sína, á íslensku og ensku, í Manitoba, N. Dakota og Minnesota, og var tveim þeirra útvarpað.. Hann hefir ennfremur ritað greinar um lýðveldishátíðina og Íslandsferðina bæði á íslensku, ensku og norsku, að ótöldum blaðagreinum og bréflegum kveðjum um þjóðræknismálin sjálf.

Sjálfsagt er einnig og meir en verðugt að geta þess í sambandi við útbreiðslumálin, að Þjóðræknisfélagið átti sinn drjúga þátt í hinu veglega hátíðahaldi í Winnipeg 16. júní í tilefni af lýðveldisstofnuninni, en formaður alsherjarnefndar þeirrar, sem að því hátíðahaldi stóð og samkomustjóri var séra Valdimar J. Eylands, vara-forseti félagsins; Guðmann Levy, fjármálaritari félagsins og frú Ingibjörg Jónsson, vara-ritari þess, áttu einnig sæti í þeirri nefnd, en ritari hennar var frú Hólmfríður Danielson, forseti sambandsdeildarinnar Icelandic Canadian Club; einnig var Jón J. Bíldfell, fyrv. forseti félagsins og þáverandi forseti þjóðræknisdeildarinnar "Frón", í umræddri allsherjarnefnd.

Margar aðrar deildir félagsins efndu einnig til sérstakrar fagnaðarhátíðar í tliefni af endurreisn lýðveldisins eða áttu þátt í slíkum hátíðahöldum á sínum slóðum, enda gat eigi fegurra eða tímabærra þjóðræknisverk á liðnu ári. Íslenskir menn og konur í landi hér munu og alment hafa verið sér þess sterklega meðvitandi á þeim tímamótum, að sigur stofnþjóðarinnar íslensku væri þeirra sigur; hennar sómi þeim sjálfum sæmdarauki.

En deildir félagsins, flestar þeirra að minsta kosti, hafa verið starfandi með ýmsum öðrum hætti en að nefndum hátíðahöldum, eins og skýrslur þeirra munu bera vott, þrátt fyrir mannfækkun á mörgum stöðum og önnur vandkvæði, sem við er að glíma.

Íslenskukenslu deildanna verður síðar getið, en sumar þeirra hafa hafist handa um tilbreytni í starfseminni, sem vert er að benda á, öðrum til fróðleiks og hvatningar. Deildin "Esjan" í Árborg, en forseti hennar er frú Marja Björnsson, hefir t. l. efnt til vísnasamkepni, sem vel hefir gefist, bæði verið til skemtunar á fundum og hefir einnig menningargildi. Sama deild hóf fyrir nokkru útgáfu fjölritaðs bygðablaðs, sem fjallar um ýms félagsmál, og er það einnig athylgisverð nýbreytni. Ritstjórn blaðs þessa hefir með höndum Valdi Jóhannesson með aðstoð þeirra frú Herdísar Eiríksson og Dr. S. E. Björnsson, varafjármálaritara félagsins. — Þá hefir sambandsdeild félagsins í Seattle, en forseti hennar er Kolbeinn S. Thordarson vararæðismaður, tekið sér fyrir hendur

upp og samþykt, 18 með 2 á móti. Mátti því heita að fundurinn væri einróma á móti því að þingtíma væri breytt.

Við kusum erindreka á Þjóðræknisþingið á fundinum í Glenboro, þann 18. jan., annars hefir deild okkar verið fremur aðgerðalítil á árinu og engin afrek eru frá henni að segja, við kusum góða nefnd á fundinum til að skrifa upp meðlimi fyrir næsta ár.

Með bestu óskum til þín og þinna, og svo til Þjóðræknisfélagsins og í hönd farandi þings.

Þinn einlægur,

G. Oleson, skrifari

Nú minti forseti á samkomu Icelandic Canadian Club, er haldin yrði að kveldinu kl. 8 e. h., þar sem séra B. Theodore Sigurðsson yrði aðal ræðumaður.

Séra Halldór E. Johnson bar fram munnlega kveðju til dr. Beck, forseta félagsins, frá öldruðum manni á Lundar; var forsetinn, að skilningi þess er kveðjuna sendi talinn "sverð" og "brynja og skjöldur" félagsins.

Er hér var komið fundi, bar Á. P. Jóhannsson fram álit dagskrárnefndar um að hinni prentuðu dagskrá þingsins sé fylgt.

Miss Sigurrós Vídal og Björn Stefánsson gerðu tillögu um að hún sé viðtekin og var það samþykt.

Ársskýrsla deildarinnar "Ísland" í Morden, Man., fyrir árið 1944 var nú lesin upp af ritara og var hún viðtekin af þinginu samkvæmt tillögu þeirra séra Halldórs E. Johnson og Hjartar I. Hjaltalín. Samþykt.

**Ársskýrsla deildarinnar "Ísland" Morden, Man.**

Við hér urðum fyrir því óhappi, að Brown pósthús var lokað, eftir meir en fjörutíu ára starf. Við verðum því að fá póst okkar frá Morden í austurhluta bygðarinnar, eða frá Thornhill, Man., í vesturhlutanum, og er það mjög óhentugt og óvinsælt fyrirkomulag. Við verðum því víst hér eftir að kenna bygð vora og deild við Morden, en ekki Brown.

Deildin okkar er með dágóðu lífi ennþá. Fjórir vel sóttir fundir voru haldnir á árinu 1944. Vegna burtflutnings fólks héðan úr bygð hefir fækkað í félagi voru, svo er margt af ungu fólki fjarverandi vegna stríðsins, en samt eru tuttugu og fjórir góðir og gildir meðlimir aðalfélagsins, auk allra Íslendinga í bygðinni, sem tilheyra heimadeildinni.

Embættsmenn fyrir árið sem er nýbyrjað eru: forseti, Óskar Sigurður Gillis; ritari, Guðrún Thomasson; fjármálaritari, Jonathan Thomasson; féhirðir, Thorsteinn J. Gíslason.

Jón Sigfússon Gillis andaðist 28. mars síðasta ár. Hann var einn af stofnendum deildarinnar hér, ágætur félagsmaður, ekki einungis í deild vorri, heldur öllum okkar félagsskap Íslendinga hér í bygðinni; þess utan fjölda mörg ár í sveitastjórn Stanley sveitar, og 14 ár af þeim tíma oddviti (Reeve) sveitarinnar, við ágætan orðstír.

Með bestu óskum til þingsins, fyrir hönd deildarinnar Ísland.

Virðingarfylst,

T. J. Gíslason

Ársskýrsla deildarinnar "Gimli", Gimli, Man., fyrir árið 1944 var nú lesin upp af skrifara, og viðtekin af þinginu, samkvæmt tillögu J. Húnfjörð, er Dr. S. E. Björnsson studdi.

**Ársskýrsla deildarinnar "Gimli", Gimli, Man., fyrir árið 1944.**

Þetta fyrsta starfsár deildarinnar hefir ekki verið viðburðaríkt. Þrjár samkomur hafa verið haldnar á s. l. ári við góða aðsókn.

Íslensku skólinn gengur vel. Breyting varð á kensludögum. Í staðinn fyrir að kenna á laugardagsmorgna, fer kenslan nú fram eftir kl. 4 á miðvikudögum, en eins og áður í barnaskólanum.

| | |
|---|---|
| Inntektir ársins | $230.85 |
| Útgjöld | 64.64 |
| Í sjóði | $166.21 |

Kær kveðja til þingsins.

Ingólfur N. Bjarnason, skrifari

Ársskýrsla deildarinnar "Snæfell", í Churchbridge, Sask., fyrir árið 1944, lesin og viðtekin eftir tillögu Miss Sigurrósar Vídal, er Á. P. Jóhannsson studdi. Samþykt.

**Ársskýrsla deildarinnar "Snæfell" fyrir árið 1944**

Starfsemi deildarinnar hefir verið með líkum hætti og undanfarið. Fjórir starfsfundir hafa verið haldnir á árinu og tvær skemtisamkomur.

Deildin gekst fyrir samkomuhaldi þ. 17. júní. Var það hvorttveggja í senn hin árlega þjóðminningar samkoma bygðarinnar, og jafnframt samfagnaðar hátíð í tilefni af því að þá endurheimtu bræður vorir heima á ættjörðinni sjálfstæði sitt að fullu, eftir langa baráttu.

Aðalræðumaðurinn á þeirri samkomu var séra Theodore Sigurðsson. Var ræða hans lögeggjan til Vestur-Íslendinga, að vernda þjóðerni sitt. Var góður rómur gerður að máli hans.

Þá stóð deildin fyrir sýningu kvikmyndarinnar íslensku. Var hún sýnd við góða aðsókn og mun hafa rifjað upp fyrir sumu eldra fólkinu fornar endurminningar frá æskuárunum.

Reynt hefir verið að efla bókasafnið eftir því er ástæður hafa leyft. Bækurnar eru lánaðar út með líkum hætti og áður undir umsjón sömu bókavarða.

Nokkrir gamlir og góðir meðlimir deildarinnar hafa horfið af sjónarsviðinu af ýmsum ástæðum, nú síðustu árin, en þó hefir tekist að fylla svo í skörðin að félagatal mun líkt og verið hefir, eða um tuttugu.

Samkvæmt fjárhagsskýrslu gjaldkera urðu tekjur á árinu $71.18, en útgjöld $49.67. Í sjóði um áramót $21.51.

Virðingarfylst,

Þór Marvin, forseti
Einar Sigurðsson, ritari

Ársskýrsla deildarinnar "Frón" í Winnipeg var nú lesin upp af forseta deildarinnar, Guðmann Levy.

**Skýrsla deildarinnar "Frón" Winnipeg, Man.**

Starf deildarinnar "Frón", hefir gengið vel og verið með líkum hætti og undanfarin ár.

Bókasafn deildarinnar hefir verið starfrækt við góða aðsókn. Og hafa um þrjú þúsund eintök verið lánuð út yfir árið, en eitthvað um hundrað og fimm manns hafa notað það á árinu.

Sem stendur, er safnið ekki í eins góðu lagi, sem það ætti að vera, sökum þess, að tvö síðast liðin ár hefir viðgerð bóka verið af skornum skamti, og sökum þess, hve fjárhagur deildarinnar hefir staðið á völtum fótum. En deildin heldur kosið að bæta nokkrum nýjum bókum við safnið, en peningar ekki til fyrir hvortveggja.

Á síðast liðnu hausti var prentuð ný bókaskrá, og afar mikið verk lagt fram af örfáum mönnum við að skrásetja og flokka bækurnar. Stóð það verk yfir í margar vikur, og þeir sem að því unnu, gerðu það alt án þóknunar. Nefndin samþykti reglur, sem hún lét prenta framan við bókalistann. Þar segir að sérstakt gjald, að upphæð einn dollar skuli vera fyrir bókasafnið. — Þetta gjald náði þó ekki fram að ganga að þessu sinni, sökum þess, að fólki fanst það svo "óréttlátt", og fanst deildin vera að brjóta lög á sér og koma í veg fyrir, að fólk hefði alment not af safninu. Vitandi ekki það, að brotin hafa verið lög á deildinni "Frón" síðan 1936, því þá voru samþykt lög um það að sérstakt ársgjald fyrir lestrarfélagið skuli vera dollar og 5 cent á dag fyrir hverja bók, sem haldið er lengur en viku í senn. Mælist eg til að þetta mál verði tekið upp á þingi og deildinni heimilað að framfylgja þeim reglum sem samdar voru fyrir bókasafnið, árið 1936.

Mörgum féll það svo illa, að strangar reglur voru settar með útlán bókanna, síðan hefir þó komið í ljós, að þegar þessum reglum er framfylgt reynast þær svo vel að fólki fer að líka margt betur, því nú getur það fengið bókina sem það vill fá, þegar því er sagt að bókin

komi inn, og svo mundi einnig verða með dollars gjaldið.

Deildin hefir keypt margar nýjar og góðar bækur frá Íslandi á þessu liðna ári. En þær hafa verið dýrar en fjármagn til bókakaupa síst meira en þau árin sem bækur voru í lægra verði. Hátt á annað hundrað dollara hefir þó deildin lagt til bókakaupa, og er það meira en hún með góðu móti getur látið af hendi, fyrir bækur, með þeim inntektum sem hún hefir yfir árið.

Deildin hefir haldið níu fundi á árinu, og af þeim voru þrír fræðslu og skemtifundir, sem voru mjög vel sóttir og þótti að öllu leyti hinir bestu, og eru nú orðnir mjög vinsælir.

Frónsmótið var á annan veg en undanfarið, að því leyti, að þar fór aðeins fram skemtiskrá, en engar veitingar eða dans á eftir, eins og vanalega, sökum samkvæmis þess, sem haldið var kvöldið eftir á Marlborough Hotel af Þjóðræknisfélaginu í tilefni af 25 ára starfsemi þess. Þar sagði ferðasögu sína og flutti kveðjur að heiman, hinn vinsælasti gestur sem til vor hefir komið, Sigurgeir Sigurðsson biskup yfir Íslandi. Þá fann maður tilfinnanlegast til þess, hve illa vér erum staddir með samkomuhús. Fjöldi fólks varð frá að hverfa og jafnvel sumir, sem miða höfðu komust ekki inn sökum troðnings þess, sem fyrst komu. Var af þessu nokkur óánægja og varð deildin að innleysa nokkra miða af þeim sem ekki komust inn til að sjá og heyra þenna góða gest. Má vera að nefndin, sem þá var, sé að nokkru leyti orsök þess, fyrir að hafa ekki undirbúið alt nægilega vel og hyggilega. Og svo, þrátt fyrir mannfjöldann, hafði deildin ekki eins mikið upp úr þessari samkomu, sem undanfarin ár.

Núverandi stjórnarnefnd "Fróns", hefir sterkan hug á að láta hendur standa fram úr ermum í sambandi við þroskun þessa félagsskapar, sem hún var kosin til að sjá farborða, og hún mun leitast við að leiða hann föstum skrefum fram á við, þó þungt verði kannske stundum undir fæti.

Winnipeg, 24. febrúar 1945.

Davíð Björnsson

Séra V. J. Eylands gerði tillögu um að hún sé viðtekin. Einar Magnússon studdi. Samþykt.

J. J. Bíldfell lagði nú fyrir þingið skýrslu kjörbréfanefndarinnar er skilgreindi erindsreka hinna ýmsu deilda og atkvæðamagn það er hver erindsreki hefði yfir að ráða.

**Skýrsla kjörbréfanefndar**

Fulltrúar frá eftirfarandi deildum eru mættir á þinginu og eiga yfir að ráða atkvæðamagni sem hér segir:

"Báran", Mountain, N. Dak. — 114 atkv.
H. T. Hjaltalín, 19 atkvæði
Haraldur Ólafsson, 19 atkvæði
G. J. Jónasson, 19 atkvæði
B. S. Guðmundsson, 19 atkvæði
Björn Stefánsson, 19 atkvæði
O. G. Johnson, 19 atkvæði.

"Esjan", Árborg, Man., 47 atkv.
Dr. Sveinn Björnsson, 19 atkvæði
Mrs. Marja Björnsson, 19 atkvæði
Herdís Eiríksson, 18 atkvæði
Mrs. Svanfríður Hólm, 18 atkvæði.

"Ísafold", Riverton, Man., 36 atkv.
Mrs. V. Coghill, 18 atkvæði
F. P. Sigurðsson, 18 atkvæði

"Grund", Manitoba, 43 atkvæði
Séra E. H. Fáfnis, 13 atkvæði
A. E. Johnson, 10 atkvæði
G. Lambertson, 10 atkvæði
Mrs. Josephson, 10 atkvæði.

"Gimli", Manitoba, 85 atkvæði
Mrs. Hallgrímur Sigurðsson, 28 atkv.
Hallgrímur Sigurðsson, 28 atkvæði
Guðmundur Feldsted, 27 atkvæði

"Ísand", Brown, Man., 25 atkv.
J. J. Húnfjörð, 12 atkvæði
Jonathan Thomasson, 13 atkvæði

"Brúin", Selkirk, Man., 53 atkv.
Mrs. Kristján Pálsson, 17 atkvæði
Einar Magnússon, 19 atkvæði
Mrs. Ásta Eiríksson, 17 atkvæði.

"Fjallkonan, Wynyard, Sask., 24 atkv.
Pétur Jónsson, 19 atkvæði

Auk þeirra erindreka sem nú eru taldir eiga allir skuldlausir félagar í deildinni Frón í Winnipeg atkvæði og þingréttindi á þinginu auk einstaklinga sem í aðalfélaginu eru, og viðstaddir kunna að vera og hafa borgað ársgjald sitt fyrir árið 1944.

Nefndinni hefir verið tilkynt að erindrekar frá deildunum "Snæfell" í Churchbridge, Sask., "Iðunn" í Leslie, Sask., "Skjaldbreið" í Mikley, Man., og "Öldunni" í Blaine, Wash., séu ekki væntanlegir til þings. Nefndinni hefir heldur ekki borist kjörbréf fra sambandsdeildum félagsins.

J. J. Bíldfell
Elin Hall
Hjálmar Gíslason

Var skýrslan viðtekin og samþykt eftir tillögu J. J. Bíldfell og A. E. Johnson.

**Ársskýrsla deildarinnar "Grund" í Argyle-bygð, 1944.**

Fyrir hönd deildarinnar bar séra Egill H. Fáfnis fram all-ítarlega munnlega skýrslu yfir störf deildarinnar á þessu fyrsta fulla starfsári hennar.

Þeir Á. P. Jóhannsson og Sveinn Thorvaldson báru fram tillögu um að skýrslan sé viðtekin af þinginu, með þeim skilningi að skrifuð skýrsla verði lögð fram síðar, og var sú tillaga samþykt.

Séra V. J. Eylands lagði nú fram skýrslu fyrir hönd milliþinganefndar í samvinnumál við Ísland.

**Milliþinganefndin í samvinnumálum við Ísland**

sem forseti skipaði, hafði einn fund á árinu. Var hann haldinn á skrifstofu Columbia Press félagsins í Winnipeg.

Í fundarbyrjun voru lesin bréf frá fjarverandi nefndarmönnum, sem ekki gátu komið á fund vegna fjarlægðar, þeim Guðmundi Grímsson dómara, og dr. Árna Helgason raffræðing, og voru athugasemdir þeirra og tillögur athugaðar. Einnig barst formanni nefndarinnar nokkru eftir þennan fund bréf frá öðrum fjarverandi nefndarmanni, J. T. Thorson dómara, sem fjallaði einnig um verksvið nefndarinnar.

Nefndin vill hérmeð benda þinginu á:

1. Að tilhlýðilegt sé og sjálfsagt að þingið votti stjórn íslenska lýðveldisins hugheilar þakkir fyrir þá miklu rausn er hún sýndi með því að senda hingað vestur á 25. ársþing félagsins, fyrir ári síðan, hinn virðulega og vinsæla biskup Íslands, dr. Sigurgeir Sigurðsson.

2. Að þingið votti sömuleiðis stjórn Íslands þakkir fyrir þá velvild og höfðingsskap sem hún sýndi með því að bjóða fulltrúa frá oss að taka þátt í hátíðahöldunum á Þingvöllum s. l. sumar. Sem kunnugt er, valdi stjórnarnefndin forseta félagsins, dr. Richard Beck til þeirrar farar, og var honum tekið þar með hinni mestu velvild og sýndur margvíslegur sómi, sem oss ber fyrir að þakka.

3. Að þingið þakki hlutaðeigandi stjórnarvöldum Íslands fyrir örlæti þeirra og ágætan fjárhagslegan stuðning sem hún hefir á árinu veitt til útgáfu íslensku vikublaðanna hér í Winnipeg.

4. Að þingið viðurkenni og þakki Þjóðræknisfélaginu í Reykjavík fyrir ágætan stuðning og samvinnu við útbreiðslu og sölu á Tímariti félagsins, og Sögu Íslendinga í Vesturheimi, á Íslandi.

5. Að þingið lýsi ánægju sinni yfir komu ýmsra góðra gesta frá ættjörðinni sem sótt hafa oss heim á árinu. Vill nefndin í því sambandi nefna menn eins og Ásgeir Jónasson, skipstjóra, Eggert Stefánsson söngvara, og nú síðast hinn vinsæla og mikilhæfa forseta Þjóðræknisfélagsins á Íslandi Árna G. Eylands og Dr. Helga P. Briem. Einnig vill nefndin að þingið lýsi ánægju sinni yfir dvöl hinna ýmsu námsmanna sem hér hafa dvalið eða dvelja nú við verklegt eða vísindalegt nám. Telur nefndin slíkar heimsóknir mikilsverðar til viðhalds kynningu á milli heimaþjóðarinnar og vor hér vestra, en óskar að leiðin til Íslands héðan gæti orðið fjölfarnari, og

vonar að svo verði er samgöngur komast aftur í venjulegt horf að loknu stríði.

6. Að nauðsynlegt sé að kynna almenningi hér vestra betur en gert hefir verið tilboð ríkisstjórnar Íslands um námsstyrk við Háskólann í Reykjavík fyrir námsfólk hér vestra.

7. Að þingið lýsi ánægju sinni í tilefni af því að póst og farþegaflutningar eru nú þegar hafnir loftleiðis milli Bandaríkjanna og Íslands.

8. Nefndin leyfir sér að mæla með því við þingið að það feli forseta sínum og skrifara að semja og senda bréf til forsætisráðherra, utanríkismála- og viðskiftamálaráðherra Canada, og að afrit af bréfi þessu séu send þingmönnum sléttufylkjanna í Ottawa, þar sem farið sé fram á að stjórnin athugi möguleika á því:

(a) að efna til pósts og farþegaflutnings milli Canada og Íslands.

(b) að Ísland og Canada skiftist á ríkisfulltrúum (Diplomatic Exchange).

(c) að Canada hafi verslunarfulltrúa á Íslandi.

9. Að þetta þing sendi símleiðis kveðju til utanríkismálaráðherra Íslands, og að honum sé falið að bera þá kveðju, forseta Íslands, stjórnarráðinu, biskupi, Þjóðræknisfélagi Íslendinga og félagi Vestur Íslendinga í Reykjavík.

10. Að Þjóðræknisfélagið athugi hvort mögulegt sé eða æskilegt að fara þess á leit við Canadian Broadcasting Corporation að taka upp á plötur hið vikulega fréttaútvarp frá Íslandi, sem svo megi endurútvarpa til gagns og gleði fyrir Íslendinga hér í Vestur Canada.

Ari Magnússon og A. E. Johnson báru fram tillögu um að kosin sé eða útnefnd þingnefnd í málinu.

Á. P. Jóhannsson gerði breytingartillögu er séra V. J. Eylands studdi að málið sé tekið fyrir til umræðu lið fyrir lið. Samþykt.

Bendingar nefndarinnar nú teknar til umræðu.

1. liður samþyktur eftir tillögu Á. P. Jóhannsson og Miss S. Vídal.

2. liður samþyktur eftir tillögu Á. P. Jóhannsson og S. Thorvaldson.

3. liður samþyktur eftir tillögu Á. P. Jóhannsson og Miss S. Vídal.

4. liður samþyktur eftir tillögu S. Thorvaldson og Á. P. Jóhannsson.

5. liður samþyktur eftir tillögu Á. P. Jóhannsson og Finnboga Hjálmarssonar.

6. liður samþyktur eftir tillögu Miss S. Vídal og Mrs. Herdísar Eiríksson.

7. liður samþyktur eftir tillögu Á. P. Jóhannsson og Magnúsar Magnússon.

8. lið vísað til væntanlegrar þingnefndar í málinu eftir tillögu Ara Magnússonar og J. J. Bíldfell. Samþykt.

9. liður. J. J. Bíldfell og A. E. Johnson báru fram tillögu um að í stað þess að kveðja sé send til utanríkisráðherra, séu kveðjur sendar beint af þingi til hvers aðila, er til var nefndur. Samþykt með áorðinni breytingu.

10. liður samþyktur, eftir tillögu séra H. E. Johnson er Mrs. María Björnsson studdi. Samþykt.

**Skeyti send til Íslands**

President Bjornsson,
Reykjavík, Iceland.

Twenty-sixth annual convention Icelandic National League extends to you and the nation hearty greetings and good wishes.

Icelandic National League

Prime Minister of Iceland,
The Honorable Olafur Thors,
Reykjavík, Iceland.

Twenty-sixth annual convention Icelandic National League extends to you and the government hearty greetings and good wishes.

Icelandic National League

His Grace The Bishop of Iceland,
Sigurgeir Sigurðsson,
Reykjavík, Iceland.

Twenty-sixth annual convention Icelandic National League extends to you

and the Icelandic Church hearty greetings and good wishes. Your visit last year remembered and appreciated.

Icelandic National League

Valtýr Stefánsson,
Vice-pres., Icelandic National League,
Reykjavík, Iceland.

Twenty-sixth annual convention Icelandic National League extends to you and your organization hearty greetings. Your splendid co-operation in the past greatly appreciated.

Icelandic National League

Hálfdán Eiríksson, pres.,
Vestur-Íslendingafélag,
Reykjavík, Iceland.

Twenty-sixth annual convention Icelandic National League extends to you and your organization hearty greetings. Your interest and good will greatly appreciated.

Icelandic National League

## ÞRIÐJI FUNDUR ÞINGSINS

var settur þriðjudaginn 27. febr. um kl. 10 árdegis. Fundargerð síðasta fundar lesin og samþykt, eftir tillögu þeirra séra H. E. Johnson og Mrs. Maríu Björnsson.

Séra V. J. Eylands bar fram tillögu er séra H. E. Johnson studdi að forseti skipi fimm manna þingnefnd í samvinnumálum við Ísland. Forseti tilnefndi þá.

Séra E. H. Fáfnis
Á. P. Jóhannsson
Dr. S. E. Björnsson
J. J. Bíldfell
Mrs. E. P. Jónsson

### Skýrsla þingnefndar í samvinnumálum við Ísland

Nefndin hefir athugað samvinnumöguleika við Ísland eftir föngum og hefir komist að eftirfylgjandi niðurstöðum:

1. Í sambandi við bending forseta í skýrslu sinni um stofnun upplýsinga skrifstofu, þá mælir nefndin hið besta með tillögunni og telur hana bæði nytsama og tímabæra. En þar eð nefndinni finnast ekki nægilegar upplýsingar fyrir hendi, til þess að gera ákveðnar tillögur í málinu, leggur hún til að málinu sé vísað til væntanlegrar stjórnarnefndar, til yfirvegunar og fyrirgreiðslu.

2. Í sambandi við 8. lið í áliti milliþinganefndarinnar í samvinnumálum við Ísland, sem falin var þingnefndinni til athugunar leggjum vér til, að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins sé falið:

a. Að leita allra fáanlegra upplýsinga um mögulegleika til þess að fá Canada-stjórn til þess að stofna til fólks- og póstflutnings milli Íslands og Canada, og að það beiti öllum sínum áhrifum um að fá því máli framgengt.

b. Að Ísland og Canada skiftist á ríkisfulltrúum. Þessa hugmynd sem fram kemur í nefndu milliþinganefndaráliti, teljum vér svo umsvifamikla og erum einnig í dálitum vafa um hvort slík afskifti af vorri hálfu yrðu ekki álitin af hlutaðeigandi málsaðiljum of djarftæk. Vér hyggjum að hlutaðeigandi stjórnarvöld verði að eiga upptök að slíku máli.

c. Um þá tillögu milliþinganefndarálitsins að Canada hafi verslunarfulltrúa á Íslandi, virðist okkur öðru máli að gegna. Það er vitanlegt, að Canada er nú á þessari tíð að auka mjög verslunarsambönd sín við önnur lönd. Mælum vér því hið besta með þessari hugmynd og leggjum til að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins sé falið málið til athugunar og framkvæmda, á þann hátt sem henni hentast þykir.

3. Eins og flestum Vestur-Íslendingum er kunnugt, þá höfum vér á undanförnum árum notið góðvildar og höfðingsskapar landa vorra á Íslandi á margan hátt. Meðal annars höfum vér notið hreyfimynda sem teknar hafa verið á Íslandi, og sendar hingað vestur oss til ánægju og afnota. Einnig vingjarnlegra og bróðurlegra ávarpa sem oss hafa verið send á hljómplötum, okkur að

kostnaðarlausu, en til ósegjanlega mikillar aðstoðar og uppbyggingar í okkar þjóðræknismálum. Vér vildum benda þinginu á, að æskilegt væri að við hér vestra sýndum að vér mettum slíka góðvild, með því að endurgjalda í sömu mynd, með filmum sem teknar væru hér í bygðum og bæjum Íslendinga, og einnig með hljómplötum sem færðu vinum vorum og ættbræðrum á ættjörðinni vinarkveðju vora og þökk. Við leggjum því til að stjórnarnefndinni sé falið þetta mál til athugunar og framkvæmda eins fljótt og föng eru á.

4. Á þingum hefir oft komið í ljós sú skoðun, að til aukins áhuga og skilnings meðal æskulýðs vors, væri æskilegt að afla sér bæði skugga og hreyfimynda af íslensku landslagi, iðnaði og menningu. Framkvæmdir hafa þó aldrei orðið á þessu, líklega mest sökum erfiðleikanna sem hreyfimynda framleiðslan hefir verið undirorpin á Íslandi. Nú eða í nálægri framtíð ræðst að líkindum bót á þessu. Þar sem vér teljum hugmynd þessa svo þýðingarmikla í fræðslustarfsemi vorri hér vestra leggjum vér til að stjórnarnefndinni sé falið að afla sér allra fáanlegra upplýsinga í þessu máli og leggi þær fyrir næsta þing.

—Winnipeg, 28. febrúar 1945.

E. H. Fáfnis
Ingibjörg Jónsson
J. J. Bildfell
A. P. Jóhannson
S. E. Björnsson

Á. P. Jóhannson bar nú fram skilagrein fyrir hönd milliþinganefndar í Leifs Eiríkssonar málinu. Myndastyttan er geymd í Marine Museum, New Port, Virginia, U. S. A., og er þar vel geymd. Taldi framsögumaður sjálfsagt að frekari úrlausn um varanlegan stað fyrir myndastyttuna verði ekki unt að fá, fyr en að stríði afloknu. Forseti, Dr. Beck gaf skýringu á tilraun um að fá fjárveitingu málinu til framkvæmda. Nefndin í málinu heldur áfram starfi sínu, er hún skipuð þeim: Á. P. Jóhannsson, dr. Guðmundi Grímssyni dómara og Gunnari B. Björnssyni skattstjóra.

Séra Sigurður Ólafsson bar nú fram stutta skýrslu fyrir hönd nefndarinnar í þjóðlegum fræðum.

**Skýrsla frá formanni nefndarinnar er hefir með höndum söfnun þjóðlegra sagna**

Meðfylgjandi ummæli mín eru í raun réttri hálfgerður handaþvottur af minni hálfu, sökum þess að sem heild hefir ofangreind nefnd engu sameiginlegu starfi aflokið.

Eðli þessa starfs sem nefndinni er falið er þess leiðis að hver einstakur maður sem nefndina skipar stendur vel að vígi að grafast eftir fróðleik sem fólk á í fórum sínum, sem er hinn eini vegur að ná í fræðslu og sagnir er annars kynnu að glatast. Nefndin hefir á liðnum árum reynt að eggja fólk á að láta slíkar sagnir úr eigin reynslu í té, án nokkurs árangurs. Þó er vort eldra fólk auðugt af sögnum, atburðum og eigin reynslu, er hefir hina mestu þýðingu að sýna hina íslensku hugsun, eins og hún enn er hér vestra vor á meðal.

Sjálfur hefi eg ýmislegt af sögnum sem eg hefi enn ekki að fullu unnið úr. Allir samnefndarmenn mínir eru hæfileika menn og glöggskygnir á verðmæti sagna. Hygg eg að hver og einn þeirra hafi ýmislegt úr að vinna er þeir hafa safnað og síðar mun verða framvísað.

Mikil verkefni eru enn fyrir hendi í þessa átt, mörg verðmæti, dagbækur og ritsöfn frá hendi vors elsta fólks, sem vera má að fáist ásamt annari fræðslu í sagnsafn Þjóðræknisfélagsins.

S. Ólafsson

Annar úr þeirri nefnd, séra H. E. Johnson, tók til máls. Tilrætt var um hinar ýmsu mikilsvarðandi dagbækur eldri Íslendinga, m. a. dagbækur skáldsins Jóhanns Magnúsar Bjarnasonar. — Samkvæmt tillögu séra V. J. Eylands og Dr. S. E. Björnsson var nefndin í málinu endurkosin fyrir næsta ár og skilgrein-

ing á starfi hennar viðtekin. Í nefndinni eru:

Séra Sigurður Ólafsson
Séra H. E. Johnson
G. J. Oleson
Gamaliel Thorleifsson
Páll Guðmundsson

**Útbreiðslumál**

Miss Sigurrós Vídal bar fram tillögu er J. Húnfjörð studdi að fimm manna þingnefnd sé skipuð í málinu, og útnefndi forseti þá:

Séra V. J. Eylands
Mrs. S. E. Björnsson
G. Lambertsen
Guðmund Fjeldsted
Ólaf Pétursson

Kom hún síðar með svohljóðandi nefndarálit.

Nefndin í útbreiðslumálum leyfir sér að leggja til:

1. Að þingið votti forseta sínum þakkir fyrir þann mikla dugnað og ósérplægni sem hann hefir sýnt í starfi sínu á árinu, fyrir öll þau fræðandi erindi og ræður sem hann hefir flutt víða um bygðir vorar, og fyrir hinar fjölmörgu ritgerðir sem hann hefir skrifað um íslensk mál í tímarit og blöð, bæði í Bandaríkjunum og Canada.

2. Að þingið lýsi ánægju sinni yfir heimsókn biskupsins yfir Íslandi hér hjá oss s. l. vetur, og því ágæta kynningarstarfi sem hann vann Íslandi með ræðum sínum og framkomu sinni yfirleitt á ferðum sínum víðsvegar um þetta meginland.

3. Að þingið lýsi ánægju sinni yfir hinum fjölmennu hátíðahöldum sem fóru fram s. l. sumar víðsvegar um bygðir vorar í tilefni af stofnun lýðveldisins á Íslandi. Höfðu þær samkomur allar mikla þjóðkynningarlega þýðingu sem félagi voru ber að minnast og þakka.

4. Að þingið þakki Icelandic Canadian Club brautryðjanda starfsemi þess á sviði fræðslu um íslensk mál og menningu á enskri tungu, eins og hún kemur fram einkum í sambandi við The Icelandic Canadian Evening School, sem stofnaður var í Winnipeg s. l. haust, og einnig í útgáfu hins ágæta tímarits þeirra, sem að maklegleikum nýtur vaxandi vinsælda.

5. Að þingið þakki báðum íslensku vikublöðunum í Winnipeg, og ritstjórum þeirra allan þann margvíslega stuðning sem þeir hafa veitt í sambandi við kynningar og útbreiðslustarf félagsins á árinu.

6. Að þingið þakki CBC útvarp frá 17. júní í tilefni lýðveldisstofnunar.

7. Að þingið feli væntanlegri framkvæmdarnefnd að hefjast handa um stofnun deilda á Lundar, og á svæðinu austan við Manitoba vatn, á Langruth, og á öðrum stöðum þar sem tækifæri til þess kann að vera fyrir hendi.

8. Að þingið feli framkvæmdarnefnd sinni að gera sitt ítrasta til að endurreisa þær deildir félagsins sem vegna ýmsra erfiðleika eru nú lítt starfandi. Telur nefndin að slíkt viðreisnarstarf muni best unnið með heimsóknum til hlutaðeigandi deilda af hálfu manna úr framkvæmdarnefndinni sem hún kann að velja til þess.

9. Að þingið skori alvarlega á alla fulltrúa deilda sem nú eru á þingi staddir að gera alt sem í valdi þeirra stendur til að glæða áhuga á málum félagsins heima fyrir, hver í sinni deild. Í því sambandi vill nefndin benda á að hún telur heppilegt að fundir verði haldnir í hverri deild eins fljótt og því verður við komið að afstöðnu þingi, þar sem fulltrúarnir greini frá þingstörfum, og viðleitni félagsins í heild sinni; ennfremur í því að deildir skiftist á starfskröftum, þannig að systurdeild í nærliggjandi bæ eða bygð sé boðið að standa fyrir skemtiskrá á hverjum stað þar sem deildir eru, þannig myndi fjölbreytni starfskrafta koma betur í ljós, og heilbrigð samkepni aukast.

10. Að skrifara framkvæmdarnefndar sé falið á ársfjórðungi hverjum að fjölrita úrdrátt úr fundargerningum framkvæmdarnefndar, til útbýtingar.

meðal deilda þeim til fróðleiks og upp-örvunar.

11. Að gjörðabók þessa þings sé prentuð í sérstöku riti, eins fljótt og því verður við komið, og því riti síðan útbýtt á meðal deilda og annara áhugamanna í þjóðræknismálum vorum.

12. Að forseta sé falið að þakka Lofti Guðmundssyni ljósmyndara lánið á hreyfimynd þeirri frá Lýðveldishátíðinni á Íslandi, sem sýnd var á þessu þingi, og einnig að grenslast um möguleikana á því að fá hana til sýninga út um land.

Valdimar J. Eylands
Marja Björnsson
G. Fjeldsted
O. Pétursson

**Fjármála þingnefnd**

J. Húnfjörð og A. E. Johnson báru nú fram tillögu um að forseti skipi þriggja manna þingnefnd. Samþykt.

Forseti tilnefndi þá:

Á. P. Jóhannsson
Soffonías Thorkelsson
J. J. Bíldfell.

**Skýrsla fjármálanefndar**

1. Nefndin hefir yfirfarið skýrslur embættismanna og fundið þær rétt færðar og í alla staði ábyggilegar og leggur til að þær séu samþyktar.

2. Í sambandi við rithöfundasjóð leyfir nefndin sér að benda á, að í þeim sjóði er nú aðeins $6.20.

Eins og þingheimi er kunnugt, þá var þessi sjóður stofnaður með frjálsum samskotum og honum hefir verið haldið við ár frá ári á þann hátt.

Þar sem á yfirstandandi tíð, er sérstaks styrktar þörf úr þessum sjóði, leyfir nefndin sér að beina þeirri ósk til allra deilda Þjóðræknisfélagsins að þær taki þörf þá til athugunar og fyrirgreiðslu eins fljótt og drengilega og föng eru á með fjársöfnun, og sendi til féhirðis félagsins.

Á. P. Jóhannsson
Soffonías Thorkelsson
J. J. Bíldfell.

Tíunda mál á dagskrá, fræðslumál, lá nú fyrir, en sökum þess að milliþinganefnd í málinu var ekki á þingi, var því frestað um hríð. — Þá var tekið fyrir til umræðu bókasafnsmálið, er aðallega snertir deildina "Frón".

J. Ásgeirsson bar fram tillögu er A. E. Johnson studdi að forseti skipi fimm manna nefnd, og var það samþykt.

Forseti tilnefndi:

Séra Philip M. Pétursson
Guðmann Levy
Hjálmar Gíslason
Davíð Björnsson
Jón Ásgeirsson

**Álit bókasafnsnefndar**

Eftir nokkrar athuganir og umræður í sambandi við starfrækslu og heill bókasafns deildarinnar Frón, leggjum vér undirritaðir til:

1. Að gert sé við bókaskápa safnsins svo fljótt sem unt er.

2. Að gangskör sé gerð að framkvæmd annarar greinar í bókasafns nefndaráliti síðast liðins þings, um að vísir að ensku bókasafni um íslenskt efni, sé komið á fót sem fyrst, er verði hluti af safninu.

3. Að Þjóðræknisfélagið leggi bókasafninu til húsnæði endurgjaldslaust, en að sá styrkur falli niður sem Þjóðræknisfélagið hefir veitt að undanförnu, sem nam $100 á ári.

—Winnipeg, 28. febrúar 1945.

P. M. Pétursson
Guðmann Levy
John Asgeirson
Hjálmar Gíslason
Davíð Björnsson

Formaður kjörbréfanefndar J. J. Bíldfell, lagði nú fram viðbót við skýrslu sína, tjáði hann frá því að kominn væri til þingsins Pétur N. Johnson frá deildinni "Fjallkonan" í Wynyard, hefði hann umboð yfir 90 atkvæðum. Formaður nefndarinnar gerði einnig frekari út-

skýringu viðkomandi atkvæðagreiðslu á þinginu. Þetta var fullnaðarskýrsla kjörbréfanefndarinnar. Vara-forseti séra V. J. Eylands gerði tillögu að skýrslan sé viðtekin í heild. Stutt af Miss Sigurrósu Vídal og samþykt.

**Ársskýrsla deildarinnar "Fjallkonan" í Wynyard, Sask., yfir árið 1944**

Dr. Richard Beck, forseti
Þjóðræknisfélags Íslendinga
í Vesturheimi.

Herra forseti:

Þjóðræknisdeildin "Fjallkonan" í Wynyard, Sask., sendir þessu 26. ársþingi aðalfélagsins sínar árnaðar- og heillaóskir.

"Fjallkonan" hefir ekki haft miklar framkvæmdir á árinu sem leið, þó var haldið upp á lýðveldisdag Íslands hér 17. júní. Aðal ræðurnar fluttu: Minni Íslands, frú H. Danielson frá Winnipeg og séra H. E. Johnson þáverandi prestur bygðarinnar, minni Jóns Sigurðssonar. Fyrir bæði þessi minni þakkar deildin. Bæði voru þau ágætlega sköruglega vel flutt. Einnig þakkar hún próf. S. K. Hall sem stýrði söngnum, og öllum þeim sem gáfu af tíma sínum og hjálpuðu til með þátttöku sinni. Dagurinn var haldinn í félagi við hið nýstofnaða Racing Club, sem yngri Íslendingar veita forstöðu. Vottar deildin þeim þakklæti sitt fyrir hjálpsemi þeirra á allan hátt. Sáu þeir um öll sport, auk veðreiðanna, sem einnig voru á staðnum, og var mesta aðdráttarafl fyrir aðra en Íslendinga; sérstaklega ber að nefna þá G. Magnússon, foreman "The Racing Club" og Hósa Peterson, sem lögðu fram bæði fé og mikla vinnu við undirbúning vallarins.

Deildin varð að sjá á bak tveimur ágætis meðlimum á árinu, hjónunum S. Johnson og konu hans, sem fluttu til Winnipeg. Þeim vill deildin þakka af alhug fyrir alt starfið. Það fækkar nú óðum hér Íslendingunum af eldri kynslóðinni og minka möguleikarnir á Íslendingadagshaldi með því sniði sem lengst af hefir verið, en við þykjumst sjá að afkomendur þeirra hér muni halda áfram að heiðra daginn með hátíðahaldi, sem sniðið verður meir eftir hérlendum sið, og er það sjálfsagt eðlilegt.

H. S. Axdal

Nú kom Á. P. Jóhannsson fram með skilagrein á starfi og ástandi rithöfundasjóðs. Útskýrði hann að skáldið Jóhann Magnús Bjarnason væri hinn eini er af hefði notið að þessu.

Deildin "Esjan" í Árborg hafði safnað $200.00 með þeim tilmælum að sú upphæð gengi til fyrnefnds skálds, um hendur féhirðis Þjóðræknisfélagsins. — Skýrði framsögumaður frá því að þessi upphæð hefði þegar verið afhent skáldinu. Bréf frá Jóhanni Magnúsi Bjarnasyni skáldinu góða var lesið upp; einnig áeggjan deildarinnar "Esju" um málið.

**Til Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

Með því að Þjóðræknisfélagið hefir með höndum rithöfundasjóð, leyfir Esjan sér að senda $200.00 í nefndan sjóð, og að upphæð þessi borgist að fullu og án tafar til rithöfundarins J. M. Bjarnason, sem að voru áliti hefir stytt Íslendingum fleiri stundir með sínum ritverkum en nokkur annar íslenskur rithöfundur vestan hafs.

Vér leyfum oss einnig að fara þess á leit við stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins að tillaga þessi verði send til allra deilda Þjóðræknisfélagsins, sem fordæmi um hið þarfasta verk sem alla reiðu hefir dregist alt of lengi að inna af hendi, ef ske kynni að slík viðurkenning mætti verða til þess að létta lund hins aldurhnigna öðlings og endurspegla að nokkru hans eigin heilsteypta hugarfar og innileik til Íslands og alls sem íslenskt er og að hann megi hér finna hlýtt handtak nokkurra samlanda. — Handtak sem votta á þakklæti, virðing og samúð.

—Samþykt á ársfundi Esjunnar,
28. janúar 1945.

Jafnframt því sem stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins sendir deildum þess hjálagða áskorun frá deildinni í Árborg, vill nefndin eindregið hvetja aðrar deildir til þess að taka umrædda deild til fyrirmyndar um fjársöfnun til styrktar hinum vinsæla rithöfundi og afbragðsmanni, J. Magnúsi Bjarnason. Er hér eigi aðeins um þjóðræknismál að ræða, heldur einnig um mikið nauðsynjamál, því að þau hjónin eru nú mjög farin að heilsu og eiga við mikil veikindi að stríða. Stuðningur þeim til handa er því bæði í fylsta máta tímabær og þarfur að sama skapi.

Með þetta í huga viljum við í stjórnarnefnd félagsins mælast til þess við deildirnar, að þær bregðist sem best við þessari málaleitun. Fjárupphæðir þær í rithöfundasjóð til styrktar J. Magnúsi Bjarnason, sem þannig safnast, er greiðast að senda féhirði félagsins, G. L. Jóhannson, Winnipeg, og skal ekki á því standa, að þeim verði komið í hendur hins aldurhnigna skálds án tafar.

Með bestu kveðjum.

Vinsamlegast,

forseti skrifari

Mrs. María Björnsson gerði grein fyrir gangi málsins, heima fyrir, og mælti áeggjunarorðum til deilda snertandi fjársöfnun í sama tilgangi.

Útgáfumál, 12 liður á dagskrá var nú tekinn fyrir. Tillaga Miss Sigurrósar Vídal er Mrs. Herdís Eiríksson studdi að þriggja manna þingnefnd sé skipuð.

Þessir voru skipaðir í nefndina:

Séra H. E. Johnson
Sveinn Thorvaldson
Haraldur Ólafsson.

### Útgáfunefndarálit

1. Þingið þakkar ritstjóra Tímaritsins, Gísla Jónssyni, fyrir hans ágæta starf sem ritstjóra Tímaritsins.

2. Sömuleiðis þakkar þingið Mrs. P. S. Pálsson fyrir dugnað hennar og áhuga í því að safna auglýsingum fyrir ritið.

3. Ennfremur vottar þingið hr. Árna Eylands forseta Þjóðræknisfélagsins í Reykjavík og öðrum mætum félagsbræðrum hans, þakkir fyrir að útbreiða ritið á Íslandi.

4. Þingið felur væntanlegri stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins að sjá um útgáfu Tímaritsins með svipuðu fyrirkomulagi og að undanförnu og ráða ritstjóra, og sjá um aðrar framkvæmdir málsins.

—Nefndin í útgáfunefnd, 27. febr. 1945.

H. E. Johnson
H. Ólafsson
S. Thorvaldson

### Ný mál

Tillaga deildarinnar "Esjan", um ný skýrsluform fyrir deildir lá nú fyrir þinginu.

### Tillaga

Með því að fulltrúar og aðrir gestir er setið hafa þjóðræknisþing undanfarin ár hafa kvartað yfir því að skýrlur frá deildum tækju upp of mikinn tíma, væru í mörgum tilfellum ömurlega leiðinlegar og stundum jafnvel alveg út í hött. Leyfir Esjan sér að gera tillögu um breytingu á þessum starfslið þingsins: að framvegis semji stjórnarnefnd félagsins starfsskrá (forms) í spurninga formi, sendi þessar spurningar til deildanna í tæka tíð og svörin síðan lesin á þingum.

—Samþykt á ársfundi Esjunnar,
28. janúar 1945.

Séra H. E. Johnson bar fram tillögu er H. I. Hjaltalín studdi, að málið sé tekið til umræðu á þinginu. Samþykt.

Séra H. E. Johnson lagði til að bending deildarinnar "Esjan" sé tekin til greina og henni vísað til væntanlegrar stjórnarnefndar. Stutt af Mrs. Maríu Björnsson og samþykt.

H. I. Hjaltalín hóf svo umræður um viðhald íslenskrar tungu og kenslu hennar í miðskólum Bandaríkjanna og Canada. Vék hann að nauðsyn sem á því væri að greiða fyrir ferðum til Ís-

lands. Ýmsir tóku til máls, meðal þeirra var Mrs. S. Bachmann. J. J. Bíldfell gaf útskýringar og upplýsingar um málið, og ræddi um viðhorf þess af miklum skilningi; taldi hann eld áhugans skorta hjá hinum eldri, — þessvegna yrði lítil eldkveikja í sálum hinna yngri. Miss Sigurrós Vídal tilnefndi íslensku kenslu í Gimli-bæ sem lifandi dæmi þess að íslensku kensla fengist, væri hennar krafist. Í því sambandi var minst á íslensku kenslu Miss Sigurborgar Stefánsson á Gimli.

Nú las skrifari upp ársskýrslu deildarinnar "Iðunn" í Leslie, Sask.

**Ársskýrsla deildarinnar "Iðunn" að Leslie, Sask.**

Herra forseti:

Það hefir verið frekar lítið um skipulagða þjóðræknisstarfsemi hjá okkur þetta s. l. ár og mun það vera í fyrsta skifti síðan deildin var stofnuð, sem eigi hefir verið haldin almenn samkoma. Þó er enn fullkomin þjóðræknistilfinning hjá þeim fáu löndum sem eftir eru í bygðinni, og tvisvar eða þrisvar höfum við komið saman og sungið "Hvað er svo glatt."

Á þessu komandi sumri verður deildin 20 ára gömul, og þá verður enn sungið "Hvað er svo glatt". Eigum við hálfpartinn von á að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins komi vestur og syngi með okkur og verður þá sjálfsagt bætt á söngskrána "Ó, fögur er vor fósturjörð" og "Fósturlandsins freyja", ef kvenfólk verður með.

Það er að nokkru leyti mælikvarði á lífseigju deildarinnar að 3 nýir meðlimir hafa bæst við á árinu. Þar er lífsvon sem nýtt blóð rennur. Mun það ötulleika forseta deildarinnar að þakka. Páll Guðmundsson hefir verið okkar Richard Beck hvað þjóðræknismálin áhrærir, og á hann fyrir skildar þakkir og virðing félagsmanna.

Nýjar bækur og tímarit voru keypt þó í smáum stíl væri og útlán úr bókasafninu verið líkt og undanfarin ár.

Inntektir deildarinnar á árinu að viðlögðum fyrra árs sjóði voru $58.62. Útborgað á árinu $28.70. Í sjóði hjá gjaldkera $29.92.

Eitt dauðsfall varð innan vébanda deildarinnar, Björn Axfjörð andaðist 31. des. s. l. að heimili sínu í Hólar-bygð næstum 81 árs gamall. Björn heitinn var einn af þeim, sem verið hafa meðlimir deildarinnar frá stofnun. Í dagfari var hann sérstakt ljúfmenni. Greindur var hann og hagmæltur vel, fljótur að kasta fram vísu, er tækifæri buðust. Báru þær honum flestar vitni um athygli og markhæfni. Að finna Björn á farnri braut, flestum þótti gaman, ánægju hver af því hlaut, þó ætti Bjössi framann.

Deildin vottar aðstandendum hins látna innilega hluttekning.

Að endingu viljum vér geta þess, að þó starfið á liðnu ári hefði getað verið meira og fullkomnara, teljum vér að þau fáu mál, sem deildin hefir látið sig skifta, gefi henni tilverurétt, sem þætti í því þjóðræknisbandi, sem vér öll viljum styrkja og treysta í lengstu lög.

Með kærri kveðju til þingsins.

Virðingarfylst,

Rósm. Árnason, ritari

—Leslie, Sask., 24. feb. 1945.

Var skýrslan viðtekin af þinginu samkvæmt tillögu A. E. Johnson og Stefáns ritstjóra Einarssonar.

Dr. Beck bar nú fram auglýsingu um hádegisverð með dr. Helga Briem í Hudson Bay félags byggingunni á fimtudag 12.15 e. h., undir umsjá The Viking Club; aðeins yrði þar pláss fyrir 30, auk félagsmanna.

Nú var komið að matmálstíma, var fundi frestað til kl. 1.30 síðd., samkvæmt tillögu Á. P. Jóhannson og A. E. Johnson. Samþykt. Fundi slitið.

FJÓRÐI FUNDUR

þingsins var settur um kl. 2 e. h. sama dag.

Fundarbók síðasta fundar lesin og

samþykt eftir tillögu Á. P. Jóhannsson og F. P. Sigurðsson.

Skýrsla milliþinganefndar í fræðslumálinu er Mrs. Ingibjörg Jónsson bar fram fyrir hönd nefndarinnar lá nú fyrir. Jafnframt nefndarálitinu flutti hún einnig rækilega inngangsræðu að málinu. Sérstök tillaga fræðslumálanefndarinnar var nú lesin upp.

**Skýrsla milliþinganefndar í fræðslumálum**

Samkvæmt samþykt síðasta þings voru pantaðar frá Íslandi lesbækur í stað þeirra sem voru uppgengnar. Þær eru nú komnar og verða auglýstar í íslensku blöðunum. Eru það alls 325 bækur og kostnaður á þeim er um $92.80.

Á síðasta þingi var samþykt að veita alt að $300 til kenslumála. Fjárveitingar fyrir skólaárið 1944-45 voru, sem hér segir: íslensku skólinn í Winnipeg $52.50; Riverton $30.00; Árborg $40.00; Gimli $45.00; Selkirk $30.00; alls $197.50.

Engar umsóknir um kenslustyrk komu frá skólunum í Argyle og Hecla fyrir skólaárið 1944-45.

Á fundi fræðslumálanefndar var samþykt að fara fram á að þingið veiti alt að $500 til kenslumála næstkomandi skólaár 1945-46.

—Winnipeg, Man., 27. febr. 1945.

Ingibjörg Jónsson
Á. P. Jóhannsson
(með fyrirvara)
Marja Björnsson
S. Thorvaldson

Á. P. Jóhannsson gaf þá bendingu að fjárveitingar beiðni sé vísað til fjármálanefndar þingsins.,

J. J. Bíldfell gerði tillögu er Miss Sigurrós Vídal studdi að skýrslan sé viðtekin, utan sá liður hennar sem vísað var til fjármálanefndar þingsins. Samþ.

**Fræðslumála-þingnefnd**

Í tilefni af því máli bar J. J. Bíldfell fram þá tillögu, er G. Jónasson studdi, að forseti skipi fimm manna nefnd. Í nefndina skipaði forseti:

Mrs. Hólmfríði Danielson
H. I. Hjaltalín
Mrs. E. P. Jónsson
Pétur N. Johnson
Mrs. W. Coghill

**Álit þingnefndar í fræðslumálum**

Nefndin leggur til:

1. Að þingið þakki milliþinganefnd í fræðslumálum og öllu starfsfólki fyrir áhugasamt starf á árinu.

2. (a) Að þingið bendi deildum félagsins á að æskilegt væri að setja á stofn fræðslustarfsemi með svipuðum hætti og Icelandic Canadian Evening School (á ensku ef þess gerist þörf) fyrir unglinga og fullorðna.

(b) Í sambandi við þessa fræðslustarfsemi væri æskilegt að stofna bókasafn sem hefði að geyma enskar bækur um íslenska sögu, bókmentir og um nútíðar Ísland, t. d. bækur Vilhjálms Stefánssonar.

3. Að þingið feli væntanlegri fræðslumálanefnd:

(a) Að láta semja og fjölrita lexíur til afnota skólunum, lexíur sem gera kennurunum auðveldara að æfa börnin í því að tala daglegt íslenskt mál.

(b) Að láta fjölrita smáleiki og annað efni sem er hæfilegt til afnota á lokasamkomu skólanna.

4. Að þingið gefi skólunum þessar bendingar:

(a) Að þeim börnum sem sækja skólann stöðugast séu gefin verðlaun.

(b) Að börnum sem skara fram úr í íslensku-náminu, sé gefið tækifæri að koma fram á samkomu Þjóðræknisfélagsins, t. d. með framsögn ljóða, o. s. frv.

Hólmfríður Danielson
H. T. Hjaltalín
Ingibjörg Jónsson
Pétur N. Johnson
Valgerður Coghill

Ársskýrsla Icelandic Canadian Club

var nú lesin af Mrs. H. F. Danielson, forseta félagsins. Bar hún fram mjög ítarlega skýrslu fyrir hönd sambandsdeildarinnar.

**Ársskýrsla forseta,**

**Icelandic Canadian Club**

Herra forseti og háttvirti þingheimur:

Fyrir hönd Icelandic Canadian Club vil eg bera fram kveðjur til fulltrúa og gesta, og einnig vil eg lýsa því yfir að félagi okkar er ánægja að því að heilsa enn einu sinni upp á Þjóðræknisfélagið á ársþingi þess og þökkum við hér með fyrir samstarf á árinu og einnig fyrir ritið "Þjóðhátíð Lýðveldisstofnunar á Íslandi", og fyrir sönglagið "Eldgamla Ísafold", eftir séra Halldór Jónsson.

Síðast liðið ár var alveg sérstætt í sögu Íslands og ógleymanlegt öllum Íslendingum. Og fögnum við öll yfir sigri Íslands.

Árið var einnig mjög viðburðaríkt í sögu Icelandic Canadian Club, mikið fyrir það hvað félagið tók virkan þátt í hinum margþættu hátíðahöldum sem hér fóru fram í tilefni af stofnun lýðveldisins. Og var það sérstakt gleðiefni hátíðanefndinni hér að geta boðið öllum að taka þátt í þessum hátíðahöldum þeim að kostnaðarlausu.

Eins og kunnugt er var haldin vegleg og fjölmenn samkoma í Fyrstu lútersku kirkju, föstudagskveldið 16. júní. Á laugardaginn 17. júní var minningarathöfn við Jóns Sigurðssonar myndastyttuna sem stendur við Manitoba-þinghúsið, og blómsveigur lagður við styttuna. Þá um kvöldið var útvarpað frá CBC Winnipeg, yfir Canadian Broadcasting kerfið frá hafi til hafs. Í því útvarpi tóku þátt forsætisráðherra Canada, W. L. Mackenzie King, er bar fram kveðjur frá Canada stjórninni, G. L. Jóhannson ræðismaður, er flutti kveðjur frá Íslendingum í Winnipeg; W. J. Lindal dómari, flutti snjalt erindi. Einnig fór fram dramatískt "Cavalcade" eða þættir úr sögu Íslands; var það vel samið, vel leikið og afar áhrifamikið í alla staði.

Það sama kvöld hélt Icelandic Canadian Club fjölment samkvæmi á heimili Dr. og Mrs. L. A. Sigurðsson, þar sem félagsmenn komu saman til þess að hlýða á útvarpið og til þess að heiðra Ísland. Vara-forseti W. S. Jónasson bar fram heillaóskir til Íslands, en forseti var fjarverandi, þarsem henni hafði verið boðið að flytja minni Íslands á Lýðveldishátíðinni í Wynyard.

Hin árlega samkoma félagsins í febrúar var vel sótt og hin ánægjulegasta. Dr. Árni Helgason frá Chicago sýndi íslenskar kvikmyndir í litum, og fleiri myndir, félaginu að kostnaðarlausu, og erum við innilega þakklát Dr. Helgasyni fyrir góðvild hans.

Það var félagsmönnum óblandin gleði að kynnast hinum prúða og alúðlega Dr. Sigurgeiri Sigurðsson, biskupi yfir Íslandi. Hann lét í ljósi ánægju sína yfir starfi félagsins og bauðst til að ljá því lið eftir megni. Á kveðjusamsæti er honum var haldið í Fyrstu lút. kirkju var biskupinn gerður að lífstíðar heiðursfélaga Icelandic Canadian Club, og afhenti forseti honum heiðursskírteinið. Einnig tók Icelandic Canadian Club þátt í samsæti er Þjóðræknisfélagið hélt til að heiðra hr. H. A. Bergman, dómara og frú hans, og kveðjusamsæti fyrir Dr. og Mrs. E. Steinþórsson.

Í janúar s. l. efndi Icelandic Canadian Club til gleðimóts í Fyrstu lút. kirkju, til þess að heiðra og kveðja hinn góðkunna söngmann, Eggert Stefánsson. Komu þar saman um 300 manns af vinum og velunnurum Eggerts. Ræður héldu: Dr. R. Beck, séra Valdimar J. Eylands og séra Philip M. Pétursson. Með söng skemtu sameinaðir söngflokkar ísl. safnaðanna, og alþýðusöngvar voru sungnir af öllum undir leiðsögn hr. Paul Bardal. Voru svo fram bornar rausnarlegar veitingar.

Við höfum haft þá ánægju að sýna gestrisni á fundum okkar fjölda af ísl. stúdentum frá Íslandi og hér utan úr bygðum, sem hér eru við nám. Og er það mjög tilhlýðilegt að fundir okkar skuli vera miðstöð fyrir þessa unglinga

þar sem þeim gefst tækifæri til að kynnast borgarbúum og hver öðrum.

Icelandic Canadian Club skipaði á árinu fimm manna nefnd sem hefir það verkefni að styðja og styrkja viðleitnina tli að koma á stofn kenslu í íslensku við Manitoba-háskólann.

Skemtiskrá á fundum hefir verið breytileg og fræðandi. Þrjú afbragðs góð erindi hafa verið flutt og eru þau birt í ritinu, og eru þessi: "Iceland's Struggle for Independence", séra H. E. Johnson; "Development of Music in Iceland", Mrs. E. A. Ísfeld; "A Pioneer Postman in Iceland", Mrs. V. J. Eylands.

Útgáfa ritsins "Icelandic Canadian", gengur prýðilega vel, og stendur félagið og Íslendingar yfirleitt í mikilli þakklætisskuld við útgáfunefndina sem vandar svo vel efni og frágang ritsins og vinnur alt sitt starf endurgjaldslaust.

Áskrifendum fjölgar stöðugt, eru nú um þúsund að tölu, og eru þá öll líkindi til þess a. m. k. þrjú þúsund lesi ritið. Allir fjöldinn af þessu fólki hefir ekki aðgang að öðrum ritum sem fjalla um ísl. efni. Svo tugum skiftir af þakklætisbréfum og árnaðaróskum hafa borist nefndinni úr öllum áttum og þar á meðal eitt frá Hawaii. Ritið er nú hálfs þriðja árs gamalt, 10 hefti alls. Í þeim hafa verið birtar 16 greinar um Ísland og ísl. efni; 8 sögur eftir ísl. höfunda; 38 myndir af merkiskonum og mönnum; 46 myndir af námsfólki sem hlotið hefir verðlaun eða skarað fram úr á einhverju sviði; og 306 myndir af ungum mönnum og konum af íslenskum ættum sem eru í herþjónustu. Eru það hátt upp í 400 myndir alls. Allar þessar myndir eru birtar á kostnað ritsins, að undanskildum þeim sem eru að láni frá öðrum útgáfufél. Og vitum við að Íslendingar kunna að meta þvílíka þjónustu í þágu almennings.

Skólinn sem Icelandic Canadian Club stofnaði í október s. l. í samráði við Þjóðræknisfélagið, sýnist hafa náð töluverðri hylli. Og er það einróma dómur manna að þetta starf með einmitt þessu fyrirkomulagi (kensla í íslensku samfara fyrirlestrum um Ísland á ensku) sé heppilegasta aðferðin til þess að vekja áhuga hjá yngra fólkinu, og þar með ná því takmarki sem við stefnum að í þjóðræknis baráttu okkar.

Aðsókn hefir verið góð og um 60 manns eru innritaðir i skólann. Sjö af þeim eru ekki af ísl. ættum. Í starfsnefndina voru skipaðir frá hálfu Þjóðræknisfélagsins, þær Mrs. E. P. Jónsson og Miss V. Eyjólfson, en frá Icelandic Canadian Club, W. S. Jónasson, séra H. E. Johnson og Hólmfríður Danielson. Því miður gat Miss Eyjólfson, annríkis vegna, ekki starfað í nefndinni, og séra Halldór flutti burt úr Winnipeg, en hefir komið tvívegis sérstaka ferð til þess að flytja erindi.

Eg vil þakka nefndarfólki starfið og öllum þeim sem hafa flutt hin ágætu erindi, og eins hinum sem enn eiga eftir að flytja erindi. Eg vil þakka Mrs. E. P. Jónsson, sem var svo góð að flytja erindið "The Colonization of Greenland and the Discovery of America", í stað Miss Salome Halldórson, sem sá sér ekki fært annríkis vegna, að gera það. Eg þakka forseta Þjóðræknisfélagsins fyrir liðveislu á ýmsan hátt; íslensku vikublöðunum fyrir auglýsinga starf og sérstaklega vil eg þakka kennurunum Salome Halldórson og Lilju Guttormson fyrir áhugasamt og gott starf; og ennfremur safnaðarnefnd Fyrsta lút. safnaðar fyrir þá miklu alúð sem þeir hafa sýnt okkur með því að lána kirkjusalinn fyrir fræðslustundir þessar. Síðast en ekki síst ber að þakka séra V. J. Eylands, sem hefir á svo margvíslegan hátt aðstoðað við þetta starf og lagt því góð ráð frá því fyrsta.

Starfsæksla skólans hefir haft í för með sér all mikið auka verk, fyrir utan undirbúning og skipulagningu á starfinu sjálfu. Eins og gefur að skilja er það tvent ólíkt að kenna að lesa ísl. börnum sem tala málið, kunna beygingar orða og setningaskipun í daglegu tali, eða kenna málið þeim sem ekki skilja svo að segja nokkurt orð í því, hvort sem það eru Íslendingar eða annara þjóða fólk. Og eru því lesbækurnar

